# Rímur

af

# Blómsturvalla Köppum,

orktar af

sál. Síra **Þorsteini Jónssyni**
á Dvergasteini.

---

**Kaupmannahöfn.**
Prentadar hjá Bókþryckjara S. L. Møller.
1834.

# Fyrsta Ríma.

1. Sæktu, valur óma ör, yggs af staupa veidi; hreifdu mjúkri fjadra før, fram af sagnar heidi.

2. Sízt mun tími þægur þér, þar ad tefja leingi; Báleigs áttu horna hver, hýru' ad bera meingi.

3. Gjúka storma gudi hjá, gledi vór í sinnui, Hárs nær runnu hornin á, hraustra garpa minni.

4. Einnig valá volvurnar, veitíng slíkri hrófa, er laungum sala Sigmundar, sáu bálin gjófa.

5. Nú þad trega nærir brá, nornum dreyra vallar, ad Hnikars tómar hillum á, hvolfa skálir allar.

6. Því hefir Forni feingid bréf, fátæktin svo þrotni; þad var menta stílad stef, frá stálaþrumu drottni.

7. Gud ørlaga géfur þar, giptu ósfir sínar, alda fødurs ótæpar, og vináttu sína.

8. Bréfinu fylgja bónarord, birt med skýrslu greida: ad døglíng Ása dryckju-bord, dýr til vildi reida.

9. Þar skulu Gínars hornin há, hreyfja stikli snúin, allvel fágud á ad sjá, og til veizlu búin.

10. Bidur hann ad Baldur greitt, brautar veiti geingi, medan druckid erfi' er eitt, eptir røskva dreingi.

11. Arfi Fryggjar ordin fín, ad þeim sveigdi málum: baud ad skyldi verda vín, veitt á þundar skálum.

12. Því hefir Vifur bordin á, borid öl á könnum, og sendt mér aptur söguna frá, sudurlanda mönnum.

13. Offka eg víst ad orda jörd, yfir láti flæda, dýr-ann Kvásirs dryckju fjörd, dýsir allar kvæda.

14. Laugi straumur sinnusal; sjóla ydu vallar; medan eg inni allt sem skal, um afreks kémpur snjallar.

15. Vongódur um hamíngju hót, Hángatýrs til kvæda, set eg Gyllíngs bana bót, brags úr inni fræda.

16. Mitt vill enda mannfaungs tal, mindad Hárs um ranninn; sitji fólk eg segja skal, söguna byrjar þanninn.

---

17. Ermenrekur ræsir hét, Róma stýrdi veldi; þengill býtti þess eg gét, þoskajardar eldi.

18. Tiggi frægur tilnafn bar, tign og heidri vendur; Ermenrekur Riki var, rétt ad heiti kéndur.

19. Kóngaríkin ágæt öll, audgud Grana þúnga, Mundíu sunnan fyrir fjöll, féck og land Humlúnga.

20. Ædstur þókti ættkvíslar, yggur drakons mýra; borinn Þidriks bródir var, Beru sem átti' ad stýra.

21. Njótar voru nodru sands, nidjar Samsons Rauda, sem Rodgeir bædi og bródur hans, Brúnsvein færdu' í dauda.

22. Gargans teiga gladann vér, gipta nádi stydja; átti fleina fleigir sér, fridlu son enn þridja.

23. Aki hét sá orku bar, einatt vanur hildi; elztur sona Samsonar, seggurinn var hinn gildi.

24. Þennann tíma Punds á mey, þad vill sagan róma, sinn jafníngja átti ei, yggur hands ar ljóma.

25. Báru gjördist bjarma Týr, bestin kappa jafni; metord hlaut og módu fýr, med hertoga nafni.

26. Sínum arfa svofnis mjöll, Samson gaf enn fjádi, fagurt land og frída höll, er Frítulá heita nádi.

27. Þessi glæsta borgin breid, búin hagleik snjöllum, uppi stód vid austur leid, yndir Mundíu fjöllum.

28. Ör af fé og vitur var, veitir elda módu; kundur sala Sigmundar, sást í trausti gódu.

29. Hers-því-toginn tilnafn frí, tók hinn sinnis hrausti; Aki nefndist útaf því, Öldúnga-Trausti.

30. Í Fritula Áki réð, yfir lundum steina; einnig líka er mér téð, hann ætti drottníng eina.

31. Odilía vífið var, vissu kénd að nafni; liljan hrínga blóman bar, bestra kvenna jafni.

32. Hertoginn vanur hjör að þvo, hadds og gëfnin fríða, syni áttu síðan tvo, saman og dótt-ur blíða.

33. Áka dóttir Ísodd hét, afbragð flestra svanna; brast ei ment um blíðu-flet, bryggju mundar fanna.

34. Hennar bræður traustir tveir, tóku ment-an fróma; Áki hétu og Eddgard þeir, æðstum prýddir sóma.

35. Þægir fróðir framgjarnir, fleins í róti stóru, hægir góðir gjafmildir, geira-njótar vóru.

36. Feingu bræður fósturvon, af föðurs vizku ráðum; var sá nefndur Vidilon, er viðtók sveinum báðum.

37. Lífrar úngir lysta safn, lærðu' á storð og unni; sá kom eingin sem þeim jafn, sjást að hreysti kunni.

38. Þeim til handa hamíngjan kaus, heiður kann ei dofnar, uns að jotuns allur haus, ofan í tennur klofnar.

39. Herma skal, að hlýrar tveir, huldir Rín-ar báli, foður sinn eitt sinn fundu þeir, og svá svo hagað máli:

40. Lysiir oss um yndis bý, ad auka framann gèfna, og fánga ydar fylgi í, framkvæmd slíkra efna.

41. Ydur skal látid ørt í té, Aki trúi' eg greini, vopnin jórar fólk og fé, farar allur beini.

42. Sæmd ef ydur fýsir fá, og freyu gnóttir sorgar, knýid fáka' um frónid þá, fram til Rómaborgar.

43. Býst eg vid ad barmi minn, bæti ydar geingi, svo heidur prís og hamíngjan svinn, hlotnist bádum leingi.

44. Þessi ræda þóknadest, þundum Rínar eisu; fødurs þakka bodin best, og bjuggu sig til reisu.

45. Sifjum fylgdu' um Sigtírs kvon, sveinar þrír til ferdar, var hinn fjórdi Vidilon, vaskur í stormi sverda.

46. Hertogan kvøddu hlýrar senn, hans og meingid fína; hlífum klæddir hreystimenn, á hesta stigu sína.

47. Jórar trádu foldar fax, fogrum eptir vøllum, medur þegna' ad morgni dags, Mundíu undir fjøllum.

48. Allann daginn essin gyllt, ýtar keyrdu' um slódir, gnøgudu beizlin frodu fyllt, fákar hlaupa módir.

49. Dverga hjálminn døck á brún, Oerlings konan hreldi; sinn réd arfa hvítann hún, hrekja' af skýa veldi.

50. Hlýrar klæddir hafla rög, hofdu' nur þetta leiti, ferdir lagt á lángann skóg, Lúter-vald ad heiti.

51. Olli grúman ecki meir, áfram reisa kunna, félagar allir gyrdtir geir, gjordu værdum unna.

52. Stigu reidar-fílum frá, ferda lúdum pínu, í rjódri einu, og þar slá, upp landtjaldi sínu.

53. Njótar tóku nætur ró, Nævils hallar brúna; barmi hels í brjóstid fló, og bannadi vöku-tíma.

54. Í sagdan tíma svo er téd, Salómon kóngur ríki, yfir Frönsku fróni réd, fidradur linna síki.

55. Atti brecku þetta þáng, þengill franskra lýda; dýra bædi' og fugla fáng, féckst um skóg-inn vída.

56. Kastali einn um Onars jód, út frá Mundíu heidum, med grundvelli sterkum stód, stór á velli breidum.

57. Porpid átti þetta snar, þengill vanur stáli: festíngin af firdum var Fracka kollud Skáli.

58. Lúpus nefndist linna sands, lundur víga hradur; sá var kénda kastalans, kalladur yfirmadur.

59. Hann var illur óvinsæll, arnir saddi á tafni; rángsinnadur regin-þræll, renta fylgdi nafni.

60. Nidja átti nýu og þrjá, njótur Tviblinds glóda, kífs er velli kunnu á, kírgláms eggjar rjóda.

61. Þeir voru brædur allir eins, illsku vanir hóti, ólmir svífust aldrei neins, Yggs í tjalda róti.

62. Hverr einn barma hlífar reif, Hárs med sala fýrum, garpurinn elsti Gramma-leif, grimd þó bar af hlýrum.

63. Átti skógar sjóla sá, Salómons ad geyma, hardfeingur vid þorna þrá, þundur mund-ar eyma.

64. Gilda skipan geyma má, Gramma-leif um tíma; hitt skal greina' ad hlýrum frá, hverfur svefn og gríma.

65. Sverdin bundu sér vid lær, svofnis hlyn-ir dýnu, Eddgard sídan arkad fær, út úr tjaldi sinu.

66. Kunni líta kémpan bjort, sæn vid gald-ur-fleina, fram í rjódri fagrann hjort, ferdir herda beinar.

67. Breidu spjóti bauga þór beitti skjótt ad vana; gégnum hjartad fjodrin fór, féck svo dýr-id bana.

68. Brædur segja seggir þar, sundri dýrid feita; menn svo kunni málsverdar, medur ró ad neyta.

69. Fyrr enn hlynir blossa brunns, bodunr hlýda kunnu, skála sóla hollar Punds, þrettán ad þeim runnu.

70. Ullar voru elda skérs, ornum gyrdtir klóta; fyrstur þeysti forínginn hers, flocknum und-an ljóta.

71. Ferda-hvati foríngenn, féck svo málum breyta: hvorjir ern þeir illsku-menn, er ágáng slíkan veita?

72. Djarfa þjófa þunds med fýr, þáugid geymir hæda, ad skjöldúngs Frakka skógar dýr, skjóta og stolin snæda.

73. Eddgard mælti: þegid þér! þylsi af rokum sonnum, valla kvedjur vandast hér, veg-farandi monnum.

74. Prjóta vann í þessum stad, þropta bedju hlýri, oss til fædu fyrir þad, fjortjón vann eg dýri.

75. Ojofnud ef segir sér, sjóli gjordann ríki, skadann bæta skulum vér, skjoldúng vel svo líki.

76. Skýrum svarar skjóma grér, skjældur hirdir pretta: vyrdíng minni veitt skal þér, enn vísir dæmi um þetta.

77. Skaltu vita skífir bands, skýrt ad ollu leiti, eg hefi dóma lýds og lands, Lúpus er mitt heiti.

78. Arfa mína tíu og tvo, tigna mátt hér skoda, brands er kunna brikur þvo, blinds í tjalda voda.

79. Minna dóma málin ný, muntu halda verda; allvel lætur yfir því, úngur hirdir sverda.

80. Loddariun rædir: látid þér, leika í vorum hondum, vopnin, klædi, fáka, fér, firdtir unda vondum.

81. Munum vér elda meida lóns, med oss bundna draga, til sjóla-borgar-Salómóns, síd an dómum haga.

82. Þar skulu Hnikars hallar fá, hlynir tjalda skéra; minnisverda miskun þá, er maklig sýnist vera.

83. Eddgard móti mælti því: mun það hneisu ala, ef kreptir fjotrum komum í, kóngs til hallar sala.

84. Bætur skárri býd eg þér, brjótur fíngra mjallar: matleyfar þá mettumst vér, megid þér hirda allar.

85. Veit eg játa viljið þér, vanda fuudar kauna; að dýrs af slátri vinnum vér, vel til matarlauna.

86. Garpurinn heyrði Grammaleif, geirs hvað njótur spjallar, hans í sundur reiðin reif, rænugáttir allar.

87. Sinn við fóður síðan tér, sollinn hirðir klæða: skilurðu ei að skálkarner, skimpa' að oss og hæða.

88. Vora rýrir vyrðíng það, víst og geingið fína, ef þornum ecki' í þessum stað, þá til heljar pína.

89. Eggjunar við orða dans, ört með þótta stórum, Grammaleif og hlýrar hans, hlupu' af baki jórum.

90. Úr báli óðu benvargar, buldran ecki spörðu; vakna tóku valmeyar, við þau ærslin hörðu.

91. Hinir mót af hörku þá, Herjans beita eldi; glammávedurs ógnum á, í einu bili skeldi.

92. Bróðir dauða bannar mér, brags við leik að stíma; eitt er sopið Kjalars kér, kveðin fyrsta ríma.

---

# Önnur Ríma.

1. Mímis vínar minnis horna straumur, yfir flæði andarsal, annann hródur byrja skal.

2. Fátt mun gjöra fremur máls á þíngi, í ljóða smidju lagsælann, leingi' er stirt þeim ecki kann.

3. Veit eg því: ef þenna góða brestur, sälinn kvæda saungva klíd, seint munt verda' ens eina lid.

4. Heitir því á hurdir Braga forna, til allra heilla muni minn, svo mýkist ljóda streingurinn.

5. O, þér býsir! æbstu skaptar næmi, lénid velkri ljóða grund, líssins krapt um þessa stund.

6. Látid idu Odins góma sala, kvæda-lida mýkja mót, svo megi þau dilla nú af rót.

7. Losi nú hein úr losdúngs hausi þjálfa, fyrr á tímum fast er var, farmur arma Gunnladar.

8. Med því brýni mitt þareptir skérpi, mærdar sverdid máls um gaung, svo meidist af því vakan laung.

9. Hér til allir Ása vísu drottnar og ódar völvur eptir á, amen leggi og margfaldt já.

10. Mannsaungs rædan mindar endíng sína, fram því býdur sagan sig, og segir: láttu heyra mig.

---

11. Upp þar létti óma góma skúrum blinds er elda brífurnar, bilinn lomdu sinnleifar.

12. Vorðust brædur vel og dreingilega, dragveudill í darraþrá, dansaði vopna londum á.

13. Lét og Skilvíngs skála sólu tíðum, blóði roðna rétt að von, riddarinn frægi Vidílon.

14. Ecki dimmdi yggjár veður leingi, áður enn Lúpus arfarner, urðu þrír að missa fér.

15. Voru þá líka Vidílons og hinna, skjaldsveinar í þornaþrá, þrótt og lisi eltir frá.

16. Oma ljóma Eddgard hlaut nú reyna, vopna hríð þó væri grimm, viður Lúpi arfa fimm.

17. Veittu Aka vígs á rauðum teigi, grimma sókn með Gauta sýr, Grammaleif og hinir þrír.

18. Hertoginn Lúpus heiptar knúður æði, hvergi eira vondur vann, Vidíloni móti rann.

19. Kappinn besti kífs í órum stóru, kaldsinnuðum késjubrjót, kallmannliga tók á mót.

20. Við þau skipti vigra jelið dimma, vaxa tók, þá valmeyar, voðir risu bæsingar.

21. Harða gjorðu hríð um lángaun tíma, mátti einginn milli sjá, hverr meiri hlutann ætti fá.

22. Loksins klæddur Lúpus Gjúka voðum, Sigtýrs reiddi sala sýr, sverða njóti hogg tilbýr.

23. Vargur unda Vidílónem hreldi, brynju skjold og brjóstið skar, blóði litast eggjarnar.

24. Ut um herdar oddurinn gánga nádi, hetjan frída sér nú sinn, svo sem bana adkominn.

25. Géck á lagid garpurinn orku-fylldi, blinds med reidda borgar glód, brandurinn hins á svírann ód.

26. Skilnad gjordi skrocks og hjálma jardar, hetjan svinn, og sídan tér: svó skal stytta dagleider.

27. Oku bádir ad helvegi sídan, hertogarnir spiptir seim, Sigtýrs frúin tók vid þeim.

28. Inna skal ad Aka naudir færdu, grá-leiknir vid geira dans, Grammaleif og bræd-ur hans.

29. Adsókn harda áttu þeir og lánga, sára klípu sefríngar, sundur glamma vodirnar.

30. Hetjan gat þó heljar sett í dróma, Týrs med eldi þrjá af þeim, þeir valdandir kvøddu heim.

31. Aka var þá allt í sundur rofid hjors vid þrumu Hildar skrúd, hetjan vardist menta prúd.

32. Gjorir nú líta Grammaleif hinn illi, sinna brædra feigdar for, slaug í brjóstid heiptar or.

33. Hljóp ad Aka halurinn reidi módi, hjalt-anad úr hýdi dró, hoggid gaf med orku þó.

34. Hjálminn á kom Herjans loginn raudur, ángurvadill útaf rann, aungvann skada gjordi hann.

35. Þó var hoggid þad svo strángt úr máta, ad steina vidur féll á kné, Farmatýrs í drífunne.

36. Heitur dreyrinn hljóp af Áka muuni, ofan um rjóðann randa meið; reckurinn nær í óvit leið.

37. Kjalars þó á knjánum bálið reiddi, hreystiríkur hjörva grér, hinn má gæta nú að sér.

38. Vandils sundur verju ilja þorna, ylfíngs skarpa eggin strauk, ofan í lærið síðan fauk.

39. Hlífar klæði hold og bein með öllu, Pundar grandið þunna reif, þjófið misti Grammaleif.

40. Áki hlífar aptur trollið reiddi, gégnum feigann randa rjóð, Reigins hallar ljósið vóð.

41. Sporin skjóma spýttu dreyra rauðum; Grammaleif við geira þrá, geispa tók og folna þá.

42. Freiddu' úr æðum fjör og kraptar allir, vomurinu klæddist voð heljar, og vafaði svo til nástrandar.

43. Svo var móður sendir hrotta úngi, að um málma móta stig, mátti hvergi bæra sig.

44. Falla gjörði fólinu orkuvendur, ofan á rjóðann orfa meið, orendur um þetta skeið.

45. Óvit hreppti elda reynir Grana, einsog heimi farinn frá, fantinum dauða undir lá.

46. Eddgarð hafði átt um sagðann tíma, oddahríðar atlot grimm, við áður sagða hlýra fimm.

47. Kappinn gjørdi klæddur gjúka vodum, raudum medur unda eim, andanu reka burt úr þeim.

48. Tók nú birta budla jelid dimma, skrolti því í skála sinn, skoglar klæda jotuuinn.

49. Lán daudir, dreyrinn saud úr ædum, Lúpus bædi og barmar tólf, blinds um hallar óra gólf.

50. Gleypti dreyra Gunnblinds frúin svánga, veittu skrockum vargarnir, vel forþéntar nábjárgir.

51. Uppi stód nú einn á dreyra mýrum, Eddgardur, og bádar bar, blódi mundir litadar.

52. Víga norna var af snorpuin dausi, Murnis hallar mána hár, módur nóg en ecki sár.

53. Veik ad Aka vidur Hrugnis foldar, ofan af honum axlarsveik, ønduðum kippti Gramsmaleik.

54. A byrding ullar barma folvanu lagdi, svalur andi' í fángid fló, slíkur Sorla' af honum dró.

55. Kaldri sídan kjalars meyar undu, fór ad dreypa' á frænda sinn, feigdar voda adkominu.

56. Fundings elda fleigur vill nú halda, breidum skógi burtu frá, barma sínum hjálp ad fá.

57. Tók því fáka tvo hinn ofku ríki, fleina týr og þegar þá, þángad færdi' er Aki lá.

58. Þar ad vera þótti kappa dýrum, fárlegt mjög ef sirda sveit, fedga kæmi' í eptirleit.

59. Sodla vildi seggur jóra báda, og stíga svo á gjarda glad, en gálma nockur kom á þad.

60. Fyrr ei vissi frænings eydir dýnu, enn yfir lýsti ógna gný, undir glumdi foldin því.

61. Var-sem muudu vindar sterkir gjósa, hræsvelgs undan hrommunum, hvein í skógar eikunum.

62. Í sama bili seggurinn líta kunni, sidri þakinn sofnir hvar, flaug um skýa brautirnar.

63. Hafdi aldrei Hárs um linda þollu, orva baldur augum med, ógnarlegri sképnu séd.

64. Breidum ljóma brautir lypti vængjuur, gargan þar sem Eddgard er, ofan ad valnum steipti sér.

65. Kreppti drekinu kjaptamótin stóru, utan um Lúpus svendann, og albrynjadann gleipti hann.

66. Sínum hrammi sama i augabragdi ofl; ugur til Aka sló, og upp med báda í loptid fló.

67. Kappans hold og klædi drekinn meiddi, illsku ramann atburd sér, Eddgardur, þó liki vér.

68. Vildi barma-veita adstod sínum, hals í naudum hetjan fród, Hárs uppreiddi borgar glód.

69. Á Gargans hrygginn grimmlegt högg úr ædi, falla lætur kémpan kná, kýrgláms eggin beit ei þá.

70. Í sama bili svofnis orkan grimma, yfir um midjan Eddgard þó, offa digrum spordi sló.

71. Blárondóttann beigdi sofnir hala, med svoddan afli seims ad njót, ad sig ei mátti' hann bæra hót.

72. Vendi' á lopt og vængi þandi breida, seggi med úr sögdum stad, svofnir grimmur eptir þad.

73. Sínum ferdum sá mun hljóta² ad ráda, þýngist minn um þánka rann, þundar fugl ad elta hann.

74. Öl er skálar elju vilar sala, Dulins ála dvelur val, deilíng mála selur hal.

---

## Þridja Ríma.

1. Hreisti kvaki hródrar fugl í hyggju lundi, þagnar strauma stíflum hrindi, starblinds skálar eya lindi.

2. Lipur gledin ljóda norna léttir trega, yndis þánkar þar ad hníga, þær ef dansinn lidugt stíga.

3. Veraldar þó væri torfu viddin stóra, víss í leit af fólki farin, fegri sést ei meya skarinn.

4. Ungum gømlum alburroskuum yndi sakuar, bródr-
ar meya hyggjan þrísna, hærukarlar endurlífna.

5. Þær hafa laungum lífgað kraptinn ljóða foldar,
og miðlað gróða mærðar sáldum, á moldu Ísa títt hjá
skáldum.

6. Veit eg Baldurs minni má þar mønnum lynda,
er brúðir þær fyrir borðum standa, og bera dryck til
tveggja handa.

7. Hef eg því í huga fest til Hvedrúngs sala, kérru
víst að knýja hjólin, og koma í hlaðið undir jólin.

8. Því mun Jólner þar um sjá að þegi linur, und-
irbúist — er minn grunur, — hjá Ása meingi dagamunur.

9. Býst eg við mér bjóði að drecka blinds af horn-
um, slíð fyrr enn Skilvíngs skurnar, skjoldúngs Ása mat-
seljurnar.

10. Veit eg kvæða vísin bjort með vángann rjóða,
Jóla lærð að leika gleði, lystug verða þá í geði.

11. Náttúrunnar eðlis art um yndis skóga, ef þá
kynni að þeim slaga, ecki mun eg slíkt aflaga.

12. Én því eg lofa og það skal endt um þagnar
skála, hent ef verður tíð að tala, til þess mun eg við
þær skjala.

13. Komi eg mínum kaupahlut sem kjósa vildi, val-
føðurs af víni talda, vøku staurinn skal eg gjalda.

14. Mannfaungs ræðan máls hjá njóti mindud fell-
ur, Bálkigs ljóma Blómsturvalla, brags til yðju
sagan kallar.

15. Þar nam fyrri Pundar ols á þrepta kérum, nidur falla dryckjan dýra-, ei drekinn burtu fló med hlýra.

16. Vala skjálfar verdur nú um veldi ljóma, sína vængi svofnir reyna; sagan vill frá ödru greina.

17. Morgum oldum ádur fyrr þá Alexander, hafdi' enn Mikli heimsins grundir, hers med skyldi lagt sig undir.

18. Birlud var honum banaskál i Babyloni, eitri med af meingi sínu, milding dó af þeirri pínu.

19. Fylkis mesta framgjarnasti fyrirlidi, Afsverus hét orku hradur, Alexandri dóttur madur.

20. Sá hlaut garpur sjóla nafn og seiminn rauda, arfa marga auds vid heidi, átti hann og sídan deydi.

21. Afsveri hinn ýngsti son er eikin pella, honum ól med æru snjalla, Arínm ad þjódinkalla.

22. Sá var Jólnis sala stjornu sendir fródi, hreysti ad og hvorskyns prýdi, hærri ödrum borgar lýdi.

23. Þrek svo eckert þótti stráugt med þrautum lesid, sverds ad hlynur sér ei treysti, svo var mikil kappans hreysti.

24. Hans voru bræður hreystimenn og hugar fullir, lýstir bar þó af þeim allar, yggur fleins, að sagan spjallar.

25. Ol þann gruninn geira stjóra gêðið ríka, að verða mundi hann á haka, hilmis nafn að erfðum taka.

26. Með því rjóður ræsis Ása runnur mána, ýngri var enn allir hinir, eftabornir gilva synir.

27. Kémpan únga hafði' í hug að héraf mundi, tíma meður tvinnast vandi, tók því skip og fór úr landi.

28. Hilmis arfinn hlaupa lét um haudur Ránar, reflum búna sigln svani, sinnti voðum húsabani.

29. Vestur allt í Afrikam um upsa torgir, glæstir óðu öldu vargar, átti kóngsson rómur margar.

30. Lék í höndum luckan þecka, lauka áss, sigri jafnan hafði hrósa, Hárs í þrumu borgar ljósa.

31. Afla náði ofur fjár af auði brendum, gilvasyni gêck að höndum, garpa val úr ýmsum löndum.

32. Tíginbornar tiggjadætur tók hann víða, ment er báru mens af slóðum, meður þeirra vilja góðum.

33. Vinsæll gjørdist víða sængur veitir neðru, vyrðíng þótti yfir aðra, ygg að þjóna gargans fjaðra.

34. Undir lagði mæki meður málma spillir, Afríkam i sverða solli, sigurvinníng gæfan olli.

35. Nú var kominn Nýráðs hallar njótur loga, hafinu að með ótal tugum, út þar hallar landa bugum.

36. Vellir fagrir voru þar er voxtu yndi, þecktust valla þær um stundir, þægilegri heimsins grundir.

37. Fyrir norðan frónið græna fegurðar holla, vídt sig þandi vegur fjalla, Vespertment er þjóðir kalla.

38. Avextirnir upp þar spruttu allrahanda, hittist vel með hægum fundi, hvað sem kjósa þánkinn mundi.

39. Frónið græna fanst svo vídt að fagra vegu, mátti þeysá marga daga, menn þeir vildu yfir slaga.

40. A velli þessum vísirs arfinn virta snjalli, hreysti skaptur herinn stillir, hlýddi meingið varga fyllir.

41. Sýslan mikla hefir á hendi hetjan knáa, Arínus lætur garpa grúa, geisi fagra boll tilbúa.

42. Var krínglóttur gardur gjorr er gruud uui liggur, fjolda hladinn foldar neggja, full dagreisa innanvegja.

43. Bygging sú var búin til med besta kosti; taldist múrinn tédi reistur, tuttugu hlidum sundurleystur.

44. Hvorju ysir hlidi stód med hagleik fridum, kastali einn med kostum gódum, fólgu drifinn raudu glódum.

45. Teigdu fagrann turnar haus ad torgi sunnu, líkast var sem blossar brinni, barma síns á vígslódinni.

46. Dyra ljórar laugadir voru ljósum Rúnar, dýrri byrdar birtu Grána, bjarma seldi gotu mána.

47. Loksins hofdu lundar fródir linna slódar, breidu lokid borgar smídi, bygdin hrósar fagri prýdi.

48. Aríus sídan sínu meingi sundurdeildi, salinn hvern lét hirdir holda, hýsa jafnann mannafjolda.

49. Gilva nidur grundir líns og grædis ljóma, falla lætur utan ama, undir skipta jofnud sama.

50. Aríus sídan setti log er sæma þókti, álfum skjóma eptir þetta; oldin geymdi mátann rétta.

51. Lætur merki lofdúngs arfinn lýdi minda, raudri langad sóln. funda, saumid besta hagleik munda.

52. Stód í vagni stillis nidja staungin frída, áttatín álna hædar, á henni brunnu ljósin flædar.

53. Feta-gjóta fyrir munni fylkis kundar, sett var þad, en svalur andi, silkidregnar slugur þandi.

54. Hvellar bjöllur héngu dúks á háfum jadri, báru þær af þingum ødrum, þaktar frídum drekafjødrum.

55. Mátti kári merkid bæra medur stilli; glumdu þær svo hljóminn snjallann, heyra mátti um stadinn allann.

56. Merkid vidur mildíngs frægi møgur festi, sextíu merkur sóla rastar, sem ad funduft ágætastar.

57. Undir flaggi fogru stód med farfann dýra, ljósa ósa liljan klára, laugud badi Freyu tára.

58. Pad var kvendi kurteisast í kastalaunum, frídleikans med farfa hreinum, fullnægjandi hvarmasteinum.

59. Svo var fogur sunnan bjarta sólar elfu, ad auka þótti hún ad hálfu, hnita skinid Viþils álfu.

60. Líkast var sem beitta borgar bálid reudi, fögru upp af bólmar bandi, byrdi dverga for-gyllandi.

61. Þad voru løg í þessum stad: ad þorna lestir, blacks er kynni af baki kasta, borgarmanni ágætasta.

62. Hraustur skyldi hlackar stacka hljóta njót-ur, merkid gull og meyu teita, mesti sídan dreng-ur heita.

63. Setninganna somu løg hjá sverda hlyn-um, ysir geingu eptir vonum, alla jafnt í kast-olonum.

64. Þessi vída fregnin fló um foldu græna; heitiug sá og hörku reyna, hugurinn ýmsa hvatti sveina.

65. Elfar bríma æsi því úr ýmsum londum, auds med safn og artug kvendi, orrustu þangad dýsin sendi.

66. Mátti kalla mjaldurs elda mýrar eyri, ei svo bidlavond þar væri, ad veitti nei þeim elska bæri.

67. Í sama máta Sigtýrs einginn sala tjalda, sá kom ver, ad seima hildi, sæi' ei þar, þá elska vildi.

68. Á því jafnan líka léku lýda túngur, sá ad kæmi seggur eingi, ad sinn jafníngja þar ei feingi,

69. Lendur fagrar kastalaun kríngum kundur stillis, hulinn dýru handar svelli, heita lætur Blómsturvelli.

70. Stólpa ljóna grúann glæsta gjallar funa, ullar farsa æfir. pínu, eptir skýrdi nafni sínu.

71. Yndis geingi Aríó leingi audnan seldi, gladdi dreingi dansinn skjalda, dugdi meingi staung ad valda.

72. Hédins vinar losid lisi um lög og stræti, fast á midjann Fimbulvetur, fremur þó ef ordid getur.

73. Gæfan unni sævar sunnu sendir holla; Aríus svo med sæmdir snjallar, söguna kvedur Blómsturvalla.

74. Beigir aptur bragar gydja báleigs valinn, þættinum ad um þagnar skála, þá er svoddan upphaf mála:

75. Nordanvert vid Vespermennt á vídu stræti, stendur borg sú Heilsód heitir, hilding einn þar tigna sveitir.

76. Sá var hilmir Hermetus ad heiti kéndur, hoglar fagra blossann banda, börnum veitti mundar sanda.

77. Dygdum gædda dögling átti drottníng góda; honum freya fofnis hlída, fæddi son og dóttur blída.

78. Konúngs dóttir Kurteis hét, með kosti dýra, heimur trúi eg hvergi bæri, hrínga losu þá fegri væri.

79. Hilmis arfinn Hernit var að heiti kluð-ur, sá gat látið sára vondinn, sópa Hrugnis ilja londin.

80. Svo var frækinn bólmar brennu baldur sala, að flestir tjalda viðir víla, við hann mátt'u' um sigur tvíla.

81. Snotur frægur, hygginn hægur, hýr í bragði; heita mátti að hvers er eigði, huga góð-ann að sér teigði.

82. Voskum gjörði sér að safna sonur hara, vana dýsar týrum tára, til þess hann var seit-ján ára.

83. Þá nam jötuns jálka sólar jarðar eyðir, fylkir ríkann finna' að ráði foður sinn og þannig tjáði:

84. Fýsir mig — ef luckan lénar lán og hylli — vogs með hyrr og holda snjalla, að hefja for til Blómsturvalla.

85. Þar er margur Herjans hallar hirðir funa, liðugur í leiknum fleina; mig lystir orku við þá reyna.

86. Mín skal systir meður oss hin menta vísa, og svaunar fleiri ríkir reisa, Rínar þegi bregðist eisa.

87. Ræda þessi lét í lyndi landa verdi; budlúngs son og brjótar sverda, bjuggu sig til heimanferdar.

88. Fridum nádu frænings vallar fylgja runnì, twennir níu tals ad sanna, tugir besti riddaranna.

89. Hans var systir meingi med og meya sollur; arsi sjóla ferd ei fellir, fyrr enn kom á Blómsturvelli.

90. Tjald á landi lofdúngs fundar lýdir bondu, kastalanum Arió undir, af svo lidu nætur stundir.

91. Strax ad morgni kongsíns fundur klædin rimmu, ausinn fogrum eldi damma, á sig tók med bóli hramma.

92. Hirdin nefndi Helmidon þann holdum stýrdi, vaskur nóg í solli sverda, sá var yggur megin-gerda.

93. Sinni býdur sjálfur Hernit systur fara, merkid undir menta dýra, meyan lét ad ordum hlýra.

94. Hérnæst vollinn hleypir á med herku stinna, mogur sjóla sødla hlunni, og sendi hvella raust af munni.

95. Mælir hann: ad mýlar linda meidir suna, kéudur yfir kastolonum, konta skuli á móti honum.

96. Vilji merkid verja sá og vífum unna, orku skuli sína sanna, sól ad vinna greipar fanna.

97. Hrópid kémur Helmidons ad heyrnar veldi, klæddist dreingur hekl'u Hildar, hans og allar kémpur gildar.

98. Fáka bjuggu, bak á struku, brádir æda, jórar út á vollinn vída, vidtekta þar hinir bída.

99. Samann þeysa, blackar blása, bugnir gallast, Hildar-staur á hlífum géllur, Helmidon af baki fellur.

100. Kastirleikinn fyrra ei fyrri komubragnar, en kastalans ofan stignir, allir voru kappar tignir.

101. Mátti sigri Hernit hrósa' enn horkufylldi; sinna vitjar sídan tjaldá, siklíngs búr og þjódin talda.

102. Rádir tóku niflúngs arfa njótar hrotta; Ymis hausi svefn adsetti, og svartri grímu nidur sletti.

103. Uppheims ljóminn lýsti jötuns locka veldi; Helmidon med hetjum voldum, Hernits kémur þá ad tjöldum.

104. Kvedjur samdi, sídan mælti sverda reynir: lucka vor med linna dýnu, leikur nú á valdi þínu.

105. Odins hefir einginn fyrri elda þollur, þinn jafníngi eins að ollu, oss heimsókt á Blómst-urvollu.

106. Því vil eg géfa þér í hond með þyckju góða, Kraka ríki kvistur sáða, kastalann til yfirráða.

107. Arsi sjóla gjorði gégna geira hlyni, og kvað hann mundi kosta-fínum kastalanum halda sínum.

108. Einnig mætti hann á hendi hafa' að kvittu, alla stjórn og reglur réttu, er runnar stála fordum settu.

109. Sagdist ecki sómr tyggja sólu hylja, kastalans af koppum velja, kvaðst þó mundi hjá þeim dvelja.

110. Hinir gjarna þetta þáðu þollar mækja, magnast þótti menn við slíka, metordinn og traustid ríka.

111. Hérnæst lætur Hernit geist háfann minda, kastala einn, er brjótar branda, bestu skyldu kostum vanda.

112. Stóð á grundu steini þaktur stólpa-jór-inn, bjartleikans með blómann klára, badi sveitt-ur Freyu tára.

113. Húsið glæsta blómann bar af bygðum ollum, besta slotið Blómsturvalla, Blíð-heim nádi þjóðin kalla.

114. Fylkis arfi fann því næst til fyrstu starfa, stöpul einn af steini gjörvann, stafi reista lét hann örva.

115. Tvöföld brynja huldi harða hrókinn ljóta; sem þar ridi einhver úta, eins var stólpinn til að líta.

116. Breiður skjöldur brjóstið huldi bófans trega; sjóður héck við söðulboga, saddur rauðum eldi voga.

117. Einnig plátu bragnar bundu bogann viður, sú var gjörð af svofnis láði, sextíu pundin vega náði.

118. Svo tilbúinn hafla hnútu hrókur taldist; mockur kálfa manns í gildi, merar hjartað ei þó fylgdi.

119. Síðan Hernit las þau lög: að laufa þundur, sá er meður hraustri hendi, háfum bjargs að stólpa vendi.

120. Og legði' í gégnum gylkann skjöld og Gjúka voðir, Hildar staf með hörku æði, hamdýs svo í grandi stæði.

121. Sína fögru systur skyldi sami geyma, ullur hallar eignast ljóma, og viðlagða trolladóma.

122. Nema einhverr gæti gautur gjallarfuna, komið sá úr kastólonum, er kvendið vinna mætti af honum.

123. Þeim var einnig lögum lýst hjá lund: um skjalda, einn þó niður öðrum skeldi, allir sáttir skyldu' að kveldi.

124. Kastalanum fundur grams í kyrðum stýrir; nockrar tíðir fram svo fóru, að firðar opt að leikum vóru.

125. Þó kom einginn svegir sverðs, er sigra kunni, spjóts með lögum stólpann stinna, stúlku til þó ætti' að vinna.

126. Nú tilbera ný tíðindi nóg í fréttum; en mér er orðið mál að hátta, mun því falla leikur þátta.

127. Fróðir kalla óðar alla eyðast snilli; ljóðinn falla, leiðist rella, Lóðins hallar meiði þella.

---

# Fjórða Ríma.

1. Þögnin tóma hjaðni hér, hreifist róma streingur, Báleigs ljóma fjærri fer, fögur óma dryckju kér.

2. Létt þó finni fræða tal fremd er kynni hrósa, í fjórða sinni frú og hal, Fundíngs minni gleðja skal.

3. Leingi hánga seggir sjá, sagan lánga vilji; brágs því fánga eklu á, ei vill gánga bót að fá.

4. Þeinkti áður muni minn, mundi skráður verða, vísna kljáður vefurinn, valla þráður mislcikinn.

5. En mér reynast øfugt sá, ætlar græna streingur, vitskan hreina er hrakin frá; hvað mun seinast verða þá?

6. Margt vill baga minda prefs minnis haga vorði til að laga ljóða vefs, lesin saga géldur þefs.

7. Herjans fóla horna skil, hlíðstjálfs sjóla gjammi, þlés þó sólar sjøfn í vil, segdist jóla boðin til.

8. Hvað skal segja hértil þá? hverr mun eigi vilja? eða þreya þýð á brá, þrifleg mey við kvæðaskrá.

9. Jeg má kalla jafnnærar, Jólnis halla gaungur, því Ásgarðs palla píkurnar, prestum valla sinna par.

10. Þeirra eingin bætti bøl, bað þó leingi túnga, þó eg geingi — það var kvøl — því nær spreingi á vonarvøl.

11. Fóðurs alda bikars bú, blinds af tjaldi vala; hamingjan valda hlýtur nú, hvørnig gjalda skal eg frú.

12. Þó má hætta hvørnig fer, hróðrar þætti tvinna; dverga sættir mildlist mér, mælsku gættir opnist hér.

13. Rigni ljóða akur á, Ásins fróða dreyri, mærðar gróða gési sá, gleymskan óða hverfi frá.

14. Mannfaungs eydist mærðin hvest, máls að greiða efni kjalars leiði góða gest, Einars veiði heppin best.

---

15. Aður falla Vakurs vann, vínið hallar fala: Blómsturvalla fólkið fann, framann snjalla lángvinnann.

46. Sveitin daga út fékk endt, eins og haga þótti, dýr að jaga lyst var lént, líka slaga í turniment.

47. Látum reyna mátt í mund, meingið hreina laungum, blinds skal greina brodda þund, hvað bar til eina morgunstund.

18. Blíðheims randa runnar þá, reika' að vanda um stræti; Tirfings anda týrar sjá, tjald eitt standa vollum á.

19. Silkibúna búðin var, brøndúngs dúni glitud, léku' um húna ljósraudar, laxa túna glóðirnar.

20. Einnig nýta meingið má, mann einn líta um foldu; horskur rita reynir sá, reið því hvíta tjaldi frá.

21. Sá var bræddur blossa sunds, bor ómædd-ur hrínga, skyrtu klæddur fleina funds, fogru gæddur báli Punds.

22. Brúni marar barða ljá, birtu rara kunni; merktur var þar móinn á, mann einn bar í spordi sá.

23. Sverða bendir orku ør, auðnu kéndi túna, hreifði í hendi giptugjør, gyltum vendi þornabor.

24. Fagur-raudann hófa hund, hvergi traud-ann keyrði, með óblaudann brodda þund, brunaði auða jor um grund.

25. Blackur klárum blóma var, búinn, knár á fæti; harla frár og faxið bar, farfað tárum Mardallar.

26. Undrast kunnu kommumanns, korða runnar prýði; deifði sunnu geisla glans, glóða brunna skinið hans.

27. Æðri halur hjörs við bann, hvar mun falur vera; hyggju salur orku ann, eins og valur jórinu rann.

28. Ljónið gjörða kámpan kná, keyrði varða stáli; stefndi harða stólpann á, stýrir barða tjaldi frá.

29. Beitsla hundur haudrið rann, hart sem tundur færi; stepulinn undir steinlagðann, stála bundur koma vann.

30. Loga fjarðar, lag til bjó, lundur jarðar mýla; spjótið barða breiðann smó, brynju harða gégnum fló.

31. Lángt í steininn fjöðrin fer, frœdagreinin spjallar, örvareynir aft sem ber, aptur steininn dró að sér.

32. Kappi réttur síðan sá, úr söðli sprettur glæstum, og stillar nettur stordi frá, stólpans létt- ur toppinn á.

33. Ast sá metur klettinn kann, késju betur marka, gulls þar setur hrísnu hann, hugurinn etur valla þann.

34. A Blídheims sveina hord með hót, hrópar steina álfur: þeir hvort hreina þomb og spjót, þori að reyna sér á mót.

35. Beims ef hondin blacki frá, á Blómst: urlond sig felli, geir hvar rondum gélur á, gyllta vondinn eignist sá.

36. Í kastalánn heyrast kunni hvað, kvistur geira spjallar, Hoggvarðs leira hlynir það, Hernits eyra flutti að.

37. Kóngsson ríkann fordalund, kallar líkann fæstum, aldrei slíkann öld um grund, yggjar slíka kéndi þund.

38. Hófa býður hjörtinn þá, Hernit lýður sodli; herinæst ríður hollu frá, hreystistríður vollinn á.

39. Kommnaður móti rann, meiði naðurs dýnu; valla staður Hernit hann, að heiti glað: ur frétta vann.

40. Kappinn teiti svar gaf sitt, sverða beitir hinnum: á þá leiti oldin kvitt, eingum heiti segi' eg mitt.

41. Nema af leiðar hlunni hér, hetjan greiða spjallar, orma heiðar íti grér, á burtreiðar velli mér.

42. Eg fýsist þegi fræníngs stig, né fagrar meyar vinna Gauts þó hegi glóða rig, góð það eigi vantar mig.

43. Húngað reisti' eg harðfeinginn, hárs með neistann bjarta, til að freista' um manndóm minn, menn ef treysta hér á sinn.

44. Hernits gætir hjorva grér, hyggju sætið ansa: eptirlæti það skal þér, þessu á stræti veitast hér.

45. Yrs til muggu eptir það, ullar duggu hlynir, svjótinu bjuggu spent í stað, sporum hjuggu þófa nað.

46. Til stórræða fálka frón, fékst að mæða hildi; jórar æða eins og ljón, yggjar klæða byrjast són.

47. Lángann túna léku dags., lundar Imu deilu; við hørku Gríma hallar paks, hafði að glíma benja lax.

48. Um hjorþings ranninn horkuspil, hreysti manna sýndi; kongsranninn kíss með il, kallar þannin Hernits til.

49. Unda teina bils um brú, bið eg fleina álfur; dugnað hreinan drýgir þú, dreingskap reyna þinn skal nú.

50. Hendir slaungu Hernit ter: hirði' eg aungvu' kvíða, fyrir laungu sás um vér, fals í saung eg búinn er.

51. Hófst þar bjálfa brocks um raun, burtreið álfa sagna: Blómstur-skjálfa Vollur vann, viður sjálfann aðgáng þann.

52. Spjóts af fundi þéttum þar, þytinn mundi heyra, lángt um grundir laufgaðar, lóð-in stundi valmeyar.

53. Hverr að öðrum hörð með hót, hlýfar nöðrum ýtti, vígs á jöðrum jarka bót, jötuns fjöðrum tók á mót.

54. Hreysti nýtur Hernits jór, hörð við býtin þessi, sigrast hlýtur, svigna fór, úr söðli hrýtur banga þór.

55. Orku vandi afreks mann, ei þó grandi mætti; heya brandi kif sá kann, kom standandi' á völlinn hann.

56. Sá útlendi fákinn fer, fleina bendir stilla; Hernit vendi að honum sér, Hárs um kvendi og þannig tér:

57. Jeg er valdi yðar á, undir tjaldi veðra, fyrr kom aldrei seggur sá, söðli' er kvaldi mig í frá.

58. Ans til hneigir geira grér, gauti sveigis elda: bróður þegi hugði eg mér, þó hestur eigi dygði þér.

59. Dveljast yður hygg eg hjá, hjörva viður spjallar; gramsson biður gæfan þá, gröi, er styður tíma þá.

60. Hrósan valda hjörva freir, Hernit tálda endti; síðan halda sáttir þeir, til sílkitjalda báðir tveir.

61. Fernir voru fimtán þar, slegdu jóra vinir, svemlu ljóra Sigmundar, sólu stóra hver einn bar.

62. Einnig reita bráins brú, blóma neytum hlàdin; Tekla ad heiti sögd er sú, svannar veita þjónkan trú.

63. Hernit býdur hópnum heim, hvorskins prýdi og sóma; þarnæst rídur þunds med eim, þegn og lýdur allur heim.

64. Kyrt um sátu, kommmann, kallad plátu hlynir, Rauda gátu Riddarann, er risla átu vargi kann.

65. Orkurikum eydir var, yggjar brika vesju, einginn likur þegna þar, þunds er slikur sundur skar.

66. Týr hjá geira giptu lid, gott mun eira leingi. Fólk vill heyra kvæda klid, kémur fleira sögunna vid.

67. Metiprous hilmir hét, haudri góins bytti; blóds á móum belja lét, benja sjó um járna flet.

68. Miklagardi ræsir réd, raunsn ei spardi dýra; góins ardi gæddur med, geiri vardi lond og féd.

69. Atti granna gætir snar, greipar fanna þollu, hét Jóhanna; visid var, væusin svanna afbragd þar.

70. Eina dóttur dogling á, dýrust þótti meya; náms var gnóttin giptu há, Gregam dróttir kalla þá.

71. Pundar konu linda ljós, lofdúngs sonur græddi; Eddilon hét, elda sjós, ullar honum færdu hrós.

72. Ríngur valla gjørdist grér, grimnis hallar mána; unnudi allar í þrótter, orms af fjalla þundum ber.

73. Sínum monnum mjúklyndur, mundar sonnum býtti; illum gronnum grimmurádur, geirs í onnum óvægur.

74. Løndin vardi sjóla sá, síklíngs hardi fundur; víkíngs bardi flocka frá, fodúrgardi og rænti þá.

75. Oldu vandi einatt gamm, Eddilon bandi hoglar, medur landi fogru fram, forlistandi rænudamm.

76. Unnar svani eina tíd, ullur grana þúnga, finni ad vana ljóst med lýd, lætur flana um géddu hlíd.

77. Skildur hyri skékur ham, skada dyra ljóna, óskabyri nýtast nam, nordur fyrir Spanían.

78. En er skyldi halda heim hraustur mildíngs arsi, vedra tryldi þussinn þeim, þegi vildi leysa geim.

79. Húna lóma hrakti blak, Hræsvelgs góma sala; um eya dróma oldu skvak, aska að Róma-veldi rak.

80. Að óbygðum gjörði gráð, grædis ygð-um fleigja; vedra trygðum varð ei náð, vafðist hrygðum snunnáð.

81. Æst um víðir vedur jöfn, værdar tíðir hröktu, uns að lýðir hæga höfn, hittu' um síðir smæckar dröfn.

82. Fjöturs-jóra-fenríngar fleina Þórar bundu; víkur fjórar vóru þar, vinir óra Kilmundar.

83. Kot stóð eitt við upsa mó, ecki brelit um foldu; kall þar greitt og kélling bjó, kynja breitt af elli þó.

84. Upp til fjalla óbygð lá, í henni vallar-dýra, veiði alla vinna má, vyrðar kalla Grænmörk þá.

85. Eddilón og öldin keik, opt frá ljónum trefla, uppá fróuið fagurt veik, fram með sjón-um höfðu leik.

86. Eitt sinn meingi fríðu frá, fylkis geing-ur arsi, til svo feingi um torg að sjá, tólf með dreingi Grænmörk á.

87. Hraustir skjóma blynir þar höfðu ei rómu-klæði, utan ljóma breckan bar, bálið óma-stofunnar.

88. Lands um slódir gyrdir geir, Grímnis tródu lundar; hvorr einn módu fýra freir, fram í rjódur komu þeir.

89. Gautar klæda um giltu sig, gaungumædi kasta; enda kvædin ordulig, eins vill rædan hvíla sig.

90. Sóma kraptur áttur er, óma sapt úr flúinn; blóma skaptur háttur hér, hljóma taptur gáttum þver.

---

## Fimta Ríma.

1. Rockrid þrýtur, róms á skálir Rognis minni, fram skal rennt í fimta sinni.

2. Veit eg muni þenkja þjódin þess í skálum, ad seinka taki sögunnar málum.

3. Slíks ad þræta, heitir: haus vid hellu berja; sönn því mál er vest ad verja.

4. Aldrei var eg í því gildi øl ad blanda, góda jøfurs góma landa.

5. Mátti' eg vita mér ei vildi miskun baka, hurdarás um øxl ad taka.

6. Er eg leit mig á því skéri uppi flæda, ad duga mundu dýsir kvæda.

7. Líkast er þó api skálda eptir vana, ad krúnki hrafn í hópnum svana.

8. Enn minn í fyrstu mátti þartil muna dreyma, að sæmra væri að sitja heima.

9. Fyrst hann brestur bragar norna blíðu vana, trebst hann seint í tíu anrana.

10. Þó skal ecki þetta láta þánkann svæfa, því ætíð hjálpar einhver gæfa.

11. Hafi sig því hugur minn til heimanferða, ráðalaus er vest að verða.

12. Eins er víst hann yggjar kunni' að eignast hráka, sein á flugi svelti-kráka.

13. Herjans føðurs heita skal á heill af ráði, Mardallar sem meini náði.

14. Lista dreingur Laufeyar mun leika' að vonum; leingi er eptir lag hjá honum.

15. Sá mun yggjar ølkjallara opna sinngu, hann efser í haminn flugu.

16. Viðhjálpin þó verði rír af viðris kérum; allt er skárra aungli berum.

17. Þyggi einginn þetta minni þorna álfur ádryckjuna sýp eg-sjálfur.

18. Man eg síðan mitt umvanda mærðar klastur, míns er eg sjálfur maklegastur.

19. Mærðin fimta mannsaungs orðum má hér enda, og søguna fyrir sjónir leiða.

---

20. Propta fuglinn þar nam sæta þagnar tjóðri: skatnar sátu í skógar-rjóðri.

21. Hvîldin nauma næsta hverful nam þó verda, vîssu ei fyrri sveigar sverda.

22. Enn ad villi-vargar tveir um vidar-reita, fara' ad þeim er Finngálpn heita.

23. Þau eru dýrin grimdargjorn í geira hvidur, monnum lík ad mitti nidur.

24. Enn frá lendum eru þau skopt sem adrir vargar, med kynja hala' og klærnar margar.

25. Vargurinn annar vyrdtist líkur vella-reinum, hafdi brjósti á bríngu-teinum.

26. Hitt bar dýrid skjóma skjold og skégg í lagi, brúnt var það sem bik á sæi.

27. Flagda jórar fridar-tjóuid færdu hronn-um, Eddilóni og hans monnum.

28. Kéndu nauda Kilmundar í kósti svellu, utan kóngsson allir féllu.

29. Trolla jórar af því íta eggjum særdu, og holum med til heljar færdu.

30. Eddilon grimma adsókn fékk þar undir míga, dreirugum á velli víga.

31. Geira vidur módur mjog af málma-róti, berst nú vorgum bádum móti.

32. En svo var þeirra grimdin grádug geirs á eingi, ad lofdúngs arfa lá vid spreingi.

33. Í sama bili selju fram úr salnum vendi, mikill vexti málmabendir.

34. Var sá klæddur vargskinns stakki vidur skída, ásýnd hafdi ofrid fríða.

35. Sylfurlindi seggs ad mitti sveigdist frídu; bitra skálm hann bar vid sídu.

36. Bjarnskinns húfu bylgju sólar baldur vandi, fogru bar á brúnalandi.

37. Svardar gnípu lýngid ljósa lidast nádi, fagur-gult ad fálkaládi.

38. Locka hjalla lýstu bliki liljur kláru, sem í stædu báli báru.

39. Vol Sigvalda bauga hirdir bar í hendi; madurinn fram í rjódrid rendi.

40. Kvenndýrinu runnur randa rédst á móti, vakta má sig vargurinn ljóti.

41. Kylfu þúnga flagda fáks í fjallid brúna, lundur færdi drakons dúna.

42. Vid þad høggid glumru grani gusar blódi, vollinn kyssti vargurinn ódi.

43. Hvert ad odru hetjan stránga høggid knúdi, uns úr skrocki ondin flúdi.

44. Sókti dýrid hitt ad hraustum hilmis arfa, kæn sig vardi kémpan djarfa.

45. En er maka misti sinn í málma Kofi, ólmast þad úr ollu hófi.

46. Gnísti tonnum, grúnd uppvaktist, grenja tekur, brædi fyllda skrockinn skékur.

47. Sló með hala kóngs til fundar, kappann lagði, undir sig á augabragði.

48. Blóminn hrørnar, baldur elda byrðar grana, fyrir sér nú bráðann bana.

49. Kóngs leit niðja kommmaður í kreppu nauða, og hjørinn þrífur dýrsins dauða.

50. Burdagóður berlíngs rauða bálið reiddi, og vala jørð af vargi sneiddi.

51. Misti dýrið hægri hramm og hjørinn rauða; blóði spýtti undin auða.

52. Við þau skipti viti firtur varguriun óði, røðst á móti randa bjóði.

53. Læsti klóm í kappans brjóst og klæðum rýður, svo komugrauninn kiknar viður.

54. Skarpar neglur skáru hold og skinn að beini, það nam stýrjar svella sveini.

55. Kjalars báli kastar þegninn kraptafrekur, og skruckujórs í skéggið tekur.

56. Annarí mund í eyrað þreif, en illskast fundur, gétk þá beinið svíra sundur.

57. Upp var stadinn Eddiloneságþeim tíma, og raudum beitti Rognis bríma.

58. Lagði ígégnum giltu maka Gondlar rapti, vopnið smó í skrock að skapti.

59. Blackur flegðu braust um fast, en bifast gíma, sem léki á þræði lángann tíma.

60. Undin gapti, benin beljar, blóð útspretti-ur, ofan á Kóngsson dýrið dettur.

61. Vargurinn dó, en doglíngs son á dreyra tánga, réð ómegin fólur fánga.

62. Blóðs í kafi fundur grams svo kéndi nauða, að kominn var að foldum dauða.

63. Konunmanni þegi þrotna þróttur kunni, veik að bleikum bauga runni.

64. Ofan af syni dreyradrifnum dregur hara, firpu dauðann Svaðilfara.

65. Móti snéri kóngsins kundi foldum auða, og þurkar blóð af runni rauða.

66. Dreypti víni dors á meið, en doglíngs niður, ræða tók og rakna viður.

67. Hann ókénda þengils arfi þá nam frétta, hans um kyn og heitið rétta.

68. Kvaðst hann eiga líf að launa lundi hjálma; honum ansar hirðir málma:

69. Mitt heimkynni kot er það með klénu smíði, sem þú standa sást hjá víði.

70. Kall orvasa kúrir þar hvors kroptum hallar, sinn mig arfa seggur kallar.

71. Kérlíng hans er móðir mín að miklu leiti, Trjámann segir hún eg heiti.

72. Nú hef eg losað spillir spánga spurníng þína, og kunna gjort þér kynslóð mína.

73. Þér um heiti mitt ad mæla meir 'ei gagnar, segir hann, og sídan þagnar.

74. Mildíngs arfa mikid fanst um mann ókénda, og rédi þannig rædu venda:

75. Pinni á eg ad þacka hreysti, þad eg minu, lísi held og fjöri fínu.

76. Því er skyldt eg sæmdum sedji Sigtýrs halla, dúka reynir dagana alla.

77. Fylg mér nú og far med oss, kvad fleigir skjóma, burt um Svoldar dýraun dróma.

78. Fylkis arfa fögru bodi fædir ylgja, hrósun galt og hét ad fylgja.

79. Vargsins óma bálid best tók bendir spánga, og átti sídan æsi lánga.

80. Skéssu hrossa skatnar 'nú frá skurdar kvoldum, geingu bádir ofan ad oldu.

81. Hilmis arfa herinn fagnar; hann ei tafdi, ad greina allt, sem ordid hafdi.

82. Lýdurinn sté 'á drafnar dýr og dúka þandi, kom í vodir kaldur andi.

83. Treflar glymja, grádid rymur, gýan stundi, frkja marir flóds á sundi.

84. Börnin Ránar belgdu vor, en budu maga, gnodir runnu' um géddu haga.

85. Loga brjótur lødurs hesta lindann bardi, medur þjód ad Miklagardi.

86. Hafnir tóku fákar falla, fleina kunni, gleipa hler og gapti munni.

87. Leiddi kóngur lid í höll, og lætur mönnum, bera raudann bjór á könnum.

88. Sonur hara sínum födur sómaverdum, segir allt af sínum ferdum.

89. Hvernig Trjámann hafi sér í hættu nauda, fjörlausn, veitt og fordad dauda.

90. Afrid fanst um hreysti hans og hugarprýdi, bædi gram og landsins lýdi.

91. Eddilon og Trjámann tóku trygdir gódar, róti vanir rimmu glódar.

92. Yndis ljóma gréru gnóttir géds um síóta fór svo tídin fram til jóla.

93. Pad var jóla aptan einn ad öld ónaumur, skémta nádi skála straumur.

94. Arfi sjóla tók þá tal um tiggja ranninn, recka vid, og rædir þannginn.

95. Sýnist mér ad Veslu bregdist byrinn hardi, mönnum hér í Miklagardi.

96. Hraustur margur heims um salinn hirdir fleina, þrótt og hörku þorir reyna.

97. En vér hofum værd, sem vif á vinnupalli, edur jór, sem stár á stalli.

98. Hlæilegt má heita mjög um hraustadreingi, fram ef svo skal fara leingi.

58. Ægdi meingi fleina fár, frid og grid tillögdu; hjörs af spreingi hafdi knár, hvor þá feingid fleinur þrjár.

59. Voru skildir aptur enn, undir Pundar vodum, orkufylldir afreksmenn, adfór hildi blundur enn.

60. Hvorugur binda sín lét sár, fundur und þó flekti; Skoglar linda fýstist fár, fremur minda hugurinn þrár.

61. Jll vandrædi þóttl þad, þjód upp ódum rísa, laufa ædi lúid hvad, leingur stædi áformad.

62. Hver til strædi vísust von, vandann brauda stilla, hefdu' í rædu hilmirs son, Hernit bædi' og Eddilon.

63. Rognis mána gyrdtir geir, gautar braut á viku, glóda Ránar géfui þeir, Gratjánam fundu tveir.

64. Gérdi bádu linna lands, lundar unda nødrn, sjá til rád ad dúka dans, ditti brádur Týrs í stans.

65. Glarsa hrännar góda hrund, gorpum snorpum heitir; Riddarann fann hinn Rauda sprund, rædu spann á þessa lund:

66. Hverju svâir huguriun þér, hrínga býnga álfur, vígs í stjáí' um valnauder, vid sem háir Trjámann hér.

67. Leingi bera leſið má, lof í ſtofu ſkálda, Rauða ſkéra runnur ſá; riddarinu tér við hana þá:

68. Rockurs talda neitum vær, naumu drauma ſmiði, Gauts þó tjalda glæðiſt blær, Gæfan valda ſigri fær.

69. Miklu ráða, mælti frú, máttu, ſátt að þyggja; helzt til náða horfir nú, hyggju láða breytnin ſú.

70. Láttu, álma lundur, ſár, linda binda þollu; helzt til tálma hreyſti ſtár, Hildar ſálma benja tár.

71. Hlaut eg valla, hjala vann, hueita beit-ir ſtærri, ör að falla enn Trjámann, um ei fjalla lætur hann.

72. Aptur linda eykin tér: eg ſkal veg til-leggja, að láti binda ſár á ſér, ſvofnis rinda elju grér.

73. Undraſt ríkann yðar móð, unda þundar teiña; einnig píkan innti fróð: yckur líka kallar þjóð.

74. Sjáſt ef mætti efni á, örva borvar væri, ſömu ætt og edli frá, allvel ſættir hæfðu þá.

75. Ærna pínu ala má, yckar þyckjan kálda, ſvofnis dýnu ſagði gná, ſegðu þínu kyni frá.

76. Partil ísvara nádi: nei! njótur klóta vandar; berlíngs skara baldur mey, bón þá spara gjörir ei.

77. Sárin binda mærin mín, má, ef Trjámann lætur, grundar linda glossa lín, grædslu minda benjum sín.

78. En ef hlífa svegir sá, segist ei það vilja, eg-læt rífa einnig frá, orustu kníka sporum þá.

79. Að mér gæda ansar fljóð, ábyrgð þá skal kalla; sefríngs hæda sídan slóð, sár nam græda fals á bjóð.

80 Vessjan steina vel umbýr, vanda randa sprúngur; art med hreina áluna Týr, aungra meina kéndi dýr.

81. Lands við glýu glossa ver, gamma dauma hildur, mál að nýu minda fer, af minnis stín, og þannig tér:

82. Lœknis eiga laun eg vil, hjá lundi mundar blóma; rjódri veiga brjótur bil, brøndúngs teiga svor gaf til.

83. Þau skulu greidd í glæsta mund, glossa fossa heidi; mærin leiddi málma þund, med sér beiddi gánga' um stund.

84. Látum reika hið rjóda fljóð, runn með sunnu dýa; mér vill skeika meiníng góð, mærðar leika streingja hljóð.

85. Odar gródur náir nú, nóttin þrótti ræna; flóda glóda gnáin þú, til góda ljóda fljái snú.

---

# Ellefta Ríma.

1. Upp skal stínga stillis góda staupa rann-inn, Atrids rauda ølid blanda, ydjulaus er verst ad standa.

2. Mærd ellefta mindud ætti' á minnis bordum, fram af rædu fylsnum róla, flestir búa vel til Jóla.

3. Því má ryma þagnar myrkur þoku skúfum, Hvedru vindur óds á eingi, erfidt fær sá villist leingi.

4. Mér dugir ei þad druſsa strik: ad dýrá brági, rembist vid ad setja saman; seint er ad snyrta ólagtaman.

5. Stauta eg því vid stúshendt lag þó stirdt fram-reuni, mærdar ydja máls ad taungum; mein er ad ódug-nadi laungum.

6. Yggjar gróda ørbyrgd laungum á vill bjáta, óds þad størfum eykur lúa; ad efnunum er skárst ad búa.

7. Því vill aldrei lyndis liljan laufgun fánga, brags med knappa blóma hreinum; bágt er ad hnoda deig úr steinum.

8. Után hallar Skilvíngs skála skúrin hreina, akur-reinar auki ljóda, annars flest má kraunkum bjóda.

9. Því skal nú á þrifnad heita þræla-bana, ad verdi kvædum sómi seldur; sá hefir rád er tagli heldur.

10. Hesir morgum midlad teig af mjødnum dýra, Hlidskjálfs gramur heillaríkur; hver er sínum gjøfum líkur.

11. Því vil eg ecki efast um hans ølmusuna, svo løtrad geti' eg ljóda veginn; litlu gjorist Boggur feginn.

12. Sé þad ei meir enn sígur í løg á Sigtýrs horni, eflaust hrífur ódar faungum; innansleikjan drjúg er laungum.

13. Braga nornir einnig allar á eg heiti, mín ad blómgist mærdar ládin, þó misjofn gésist kvenna rádin.

14. Vel mun ræsir rænutorgar rakna vidur, megi þar vérma mærdar løndin, því mjúk er jafnan píku høndin.

15. Mansaungs endi mér til segir mærd ad spinna, frædiñu af, því flestid leingi, fær ad hánga ef snertir eingiñ.

---

16. Þar nam tæmast þundar krús á þagnar bordum, sem ad gjordi Riddarinn Njódi, reika medur dýru fljódi.

17. Drakons leiddi dýnu eydir doccan hrínga, undir berum Austra faldi, allt ad hennar silki-tjaldi.

18. Sú var laugud súlu hindin sunda eldi, hondum mindud hagleiks vonum, harma Freyu bar á gronum.

19. Hjóra fagrann lita má þar lundur hjálma Atrids fridlu fægdann dreigli, fyrir hann hleypt var einum speigli.

20. Sú var mesta meistaradómi mindud prýdi; má þar gjörla inni allar, álfur skoda vedra hallar.

21. Borgir stórar, stadi smærri, strönd og hafnir, fugla, menn og fénad allann, fullvel sá um heim gjörvallann.

22. Undrast fögru fýris vallar skeigir sáda, ágætt þing sem art ber ríka, aldrei sá hann prýd slíka.

23. Gargans dúna liljan ljósa lund med hreina, hraustann vidur hirdir korda, hérnæst tekur svo til orda.

24. Herm þú mér, ef hluti sá þér heims er kunnur, ála sólar eydir hjalla, Evrópam sem þjódir kalla.

25. Aptur svarar eya beltis elda heidi, þundur baugs med þánka klárum; þeckti' eg hann á úngdóms árum.

26. Skír mér þá, hvad skordan hunnra skugga fælu, stadi og bygd sem þar ei þecki, þessu kappinn neitar ecki.

27. Hver er þá sú háfa borg, hvad hildur dúka, sem þar stár á vídum vollum, vænst er hún af bygdum öllum.

28. Róm er þad, kvad runnur brands; en risiil frétti: hverr þar vyrdíng ætti alla? Erminrekur hann nam spjalla.

29. Sá er gilvi glæstum þakinn gamma fjødrum, ýtum veitir orma lendur, ad auknafni hinn Riki kéndur.

30. Til landnordurs liggur borg, kvad lind- in pellu, þar eru hraustar hetjur inni, hvorr er sú, ad ætlan þinni?

31. Pad er Bern ad þundar elda þollur innir, høggvards dýnu horskur rýrir, henni Pidrik kóngur stýrir.

32. Sá er kappi sagdur mestur sólu undir, maktar stór af miklu valdi, manna fylgd og ot- urs gjaldi.

33. Til austurs þadan enn nú lít eg eina høllu, drifna blódi drupnis valla, dýa sólar ey nam spjalla.

34. Sú Fritula høllin há ad heiti reyníst, segir mæti sverda spennir; svanninn spyr: hverr stjórnar henni.

35. Aka nefna Øldúngs Trausta ýtar þenna, bitru tamann benja flagdi, berlíngs eysu hlynur sagdi.

36. Sá hertogi traustur reyníst Týrs í vindi, ríkur nóg af Rínar báli, recka gædir flagda máli.

37. Er hann giptur? eikin segir ofnis teiga; sendir spjóta svara minntist: svo var hann þá eg vidkynntist.

38. Aptur spurdi lofnin linda lausa spennir: drottníng hans hvørt dygda vitur, drós er þad sem hjá honum situr?

39. Ecki konu þecki' eg þá, kvad þundur hjálma, og ecki gét eg yfir bordum, audgrund séd, þá átti' hann fordum.

40. Gáfust Aka eingin børn vid audar heidi? spjalda hildur spyrja nádi; spjóta brjótur svara gádi:

41. Aki nidja átti tvo og eina dóttur, Isodda hét freyan falda, førfud báli reidar tjalda.

42. Segdu mér, kvad freyan fýra fiska bedju, hersis nidja nøfnin kláru; njótur svarar elda báru:

43. Annar þeirra Aki hét, en ecki gjorla, man eg nú hvad móins fjalla, meidar nádu hinu ad falla.

44. Eru þeir bádir enn nú lifs á Yggjar vísi? segir hún; en seggurinn kunni, svara þannig spurningunni:

45. Annann þeirra veit eg víst á vísi Gauta, heilann standa heilsu finnar; hvar er sá? nam píkan inna.

46. Brúdi svarar brjótur hrings: á Blómst-urvelli; talar hann nú med trygdum kænum, vid tvinna hlock í møttli grænum.

47. Enga veit eg utan mig þeim undir klæð-um, ansar svanninn orda gladur, og ertu þá hinn sami madur.

48. Spyr ei leingur, ristill rjódi, Riddarinn sagdi; svo skal vera seims kvad hildur; sídan þau ad máli skildu.

49. Gratiana geingur burt og gjørdi finna, Trjámann hratt med hug forsjálum, hýr í lund svo braut á málum.

50. Undir grátnar bandst ad binda blódi raudu, eikin seims og um þær búa, úr svo drægi verkjar lúa.

51. Søgunnar málum hirdi' eg hvergi hér ad leingja; ord þar fóru og atvik bædi, eins og fyrr er skrád í kvædi.

52. Aka nidja Eddgard nefndi ullur skjóma; gleymskn lúdur géds í fleti, greindi ei frá hvad annar héti.

53. Enn ad nýn málin minda motla gerdur, kalls vid nidja kænleg þordi, komist þannig féck ad ordi:

54. Mundir, víga vidur, þú, ef vissir gjørla, Aka sou á stordu standa, stofna honum fjørs í vanda?

55. Margs forvitin, mær, ertu hann mæla nádi, mun eg eingum meidsla neita, manni þeim er á vill leita.

56. En ef sou eg Aka þeckti ofan á foldu, óforskuldad orva kundi, ónád veita sízt eg mundi.

57. Skildu talíd þau vid þad, en þoklinbanda, heidri gædd í hyggju fróni, Hernit fann med Eddilóni.

58. Frétta sodd hún segir bádum satt af létta, svo sem fór af seggja fundi, sem og hitt ad brædur mundu.

59. Bidur hún gauta Grímnis mána gott til leggja, stáls ad mætti stodvast klidur, og stirjold þeirra falla nidur.

60. Salt vid blinda svelgdi galta systur mána, hans upprak af húsi þara, heldur svartann mey naglfara.

61. Aptur barminn elju rindar upp sig hafdi, flóds af jodrum ferd med brína, og fældi af himni módur sína.

62. Nú voru flestir fótum á sem flackad gátu, Randi greip til Rognis flíka, Riddarinn og Trjámann líka.

63. Brynjur gleiptu búka gilda, burtu þeysa, fram á vollinn Yggjar áluta, út ad lesa Hildar sálma.

64. Bal úr kverkum berlíngs eldi bjortum spúdi, grimmilegur med gneista strjáli, geirinn fylgdi Rognis báli.

65. Eddilon og Hernit hraustir hér að gættu; brjótar fagrir brøndúngs kletta, báðir upp með vopnum spretta.

66. Eddilon með hvassann hjør úr hýði dreginn, vaskur skeiðið valla stillir, og vopna þeirra hleypur milli.

67. Ræðir þannig reyhir dørs með rómi klárum: þið skuluð viðir sára saxa, soll uppgéfa benja laxa.

68. Yrs á þíngi yckur jafna allir dæma, um það kvikna einnig ræður, að þið munið vera bræður.

69. Lystir oss ei leingur sjá, að Loudúngs sala, rómu fleins í røkum køldum, rifni þak af yckar vøldum.

70. Sýnist yckar svip í øllu saman bera; søgur þær ef sannast kynni, sómir best að stirjøld linni.

71. Tyggja kúndur tók nú sínu tali venda, karls til niðja af kænsku ráði, kóngs son þannig mæla náði:

72. Fyrir ockar félagsskap og framann géfna, gæt nú Trjámann girndar minnar, gfein oss søgu æsi þinnar.

73. Vil eg aldrei vita neinn að varsa búinn, bandar ísa hreisir bæri, heldur enn eg sjálfur væri.

74. Man eg víst: að líf á launa lundi hjálma, því er skylt eg æfi alla, unni reyni drakons palla.

75. Enda skyldi' eg aldrei lífs á óðins kvendi, burtu fara' af Blómsturvelli, ef bendir ýrs fyrir vopnum félli.

76. Ansar Trjámann: yðar bæn skal ecki neitá. Eptir þetta eflir stirjar, æfisöguna þannig byrjar:

77. Fyrsta sinn þá fór eg burt af föðurs ranni, valla tamur vopna skvaldri, var eg barn að þrótt og aldri.

78. Með mér bjó sig barni minn til burtuferðar; svellur gédi sorgin stránga, sakna' eg hans um æfi lánga.

79. Fylgdi oss einnig fóstri vor sá frægðir sýndi; vér hleyptum saman sex á jórum, og sagðar leiðir burtu fórum.

80. Vér sóktum leið um lángann skóg á ljónum gjarða, þar oss mættu þrjótsku gjarnir þrettán saman ræníngjarnir.

81. Eptir þyrsti líf að létum lýðinn karga; en vér þreyttum eggja nauðir, allir þartil láu dauðir.

82. Fallinn var þá fóstri vor í feigðar dróma; en sjálfur eg af sóknum nauða, af sárum lá við gaupnir dauða.

83. Vissi' eg ei hvad lángt um leid á lausa þíngi, uns ad hlýri minn vígmódi, manna dró mig upp úr blódi.

84. Lagdi' hann mig á skygdann skjöld og skyrtu Sörla af mér dró, en aldrei sídan, eg hefi séd minn barma frídann.

85. Í sama bili sá eg dreka svartan fljúga, valnum ad, og í sig gleypti, einn af þeim sem daudinn steypti.

86. Festi drekinn krepta kló í klædum mínum; á hvössum nöglum hold mitt kendi; hér-eptir í burt hann vendi.

87. Vissi' eg ei þá vegaleingd er vængja breidur, sofnir med mig fló á ládi, fjörid mitt sú reisa þjádi.

88. Loksins klædi mín ei máttu mér upp halda; úr drekans klóm eg detta nádi, dapur því ad grænu ládi.

89. Stirdur mjög og máttfarinn af medferd slíkri, lá eg Hárs á linda gunni, leingi dags ei bærast kunni.

90. Seig ad kvöldi, sá eg hvar á svædi grænu, ógurlegur þrammar þjassi, þúngu ók sá vidar hlassi.

91. Risinn kom þar lá eg lúinn lausa sporum, hýmdi hann þar hálfann tíma, og hvessti á mig sjónar brúma.

92. Á eiktnum daudann bessa bar til bygda sinna, fjórar einnig fugla kippur, feingid hafdi kall ósluppur.

93. Hóf mig uppá hlassid sídan hvedru kundur, átektum med ecki sínum, áfram hélt svo ferdum sínum.

94. Loksins kom í dal einn djúpann Dofra hlýri, Sirpu maka sást þar stofan, saman féllu bjørg ad ofan.

95. Grímni móti géck ad fagna gleid í sporum, hárlitil med hrumann skalla, húsfreyan, ef svo má kalla.

96. Heyrdi' eg nefndist brúdurin Brynja en bóndinn Stedji, þeirra son, er þrek nam stydja, Pollur hét en dóttir Smidja.

97. Stórvaxin var Stedja jód, en stúlkan sýndist, kvennleg þó med kosti sínum, kurteis nóg og dáfrid sýnum.

98. Eikin hringa ávallt til mín augum rendi, eins og reynslan sídar sagdi, sýndist mér hún hýr í bragdi.

99. Sínum arfa bóndinn baud ad bera' inn veidi, en mig greip med hraustri hendi, Hyrju ver og burtu vendi.

100. Sporadrjúgur hól einn háfann hitta nádi, þar var gluggi á eg inni, ófrídt leist mér þad heimkinni.

101. Mér innfleigdi um munna þenna møgur flegdu, góð að skyldt grísum sínum, géfast bráð af kroppi mínum.

102. Þóktist eg í svoddan salnum settur illa, rauna vafinn sárum svíma, sá nú fyrir banatíma.

103. Leiðist mér á Litars horni leingur halda, því mun Trjámann þessu sinni, þagna verða' á frásøgunni.

104. Blandið Þundar brestur kosti blóma eydir; yrki' eg værdar ei á tíma, enda mindar samin ríma.

---

# Tólfta Ríma.

1. Hvítum dúni hreifir enn, af hyggju túni þrásækenn, fram að halda feril sinn, føðurs alda haukurinn.

2. Tvíblinds minni tals í sal, tólfta sinni hefja skal; sagnar bera borðin á, berlíngs kéra rauða lá.

3. Kóngs einherja krúsar flóð, kýs eg verja feingi þjóð, frá ógeði stutta stund, stofnuð gleði bætir lund.

4. Fróm nær øldin óskar þess, Atriðs gjøldin verða hress; harpan ljóða hreisist þá, hyggju flóðar múrum á.

5. Margir áður menn og sprund, Murnis þáðu staupa fund, flockum saman súngu ljóð, síðugt gaman þar af stóð.

6. Aðrir tímar eru nú, út má rýma venjan sú; að því hyggja öldin fær, önnur liggja störfin nær.

7. Upp er kominn annar dans, íllsku vominn djöfla ranns, drjúgum kæta sýnist sá, sinnið bæta ekkert má.

8. Mun það ecki sýnast satt, svo eg þecki' á tímum statt, að hróp og lýgi í heyrnar slóð, hærra láti en fall=eg ljóð.

9. Rógsmál, vammir, rifkingjar, ragn og skammir bölvaðar, að henda' á milli munna sér, mesta snilli hald=in er.

10. Einn ef getur annann sneypt, og úr sér betur níði steypt, mannsbragð besta þykir það, þar er mesta skémtun að.

11. Að arga' og jaga eins og grey, alla daga leiðist ei, ferðugur heitir hverja stund, hann er beitir slíkri lund.

12. Hinn er semur siðugt tal, sinn og temur ræðu dal, svoddan vamma flocki frá, forakt ramma bera má.

13. Amors læti' og erindi ljót, æðsta sæti taka' á mót; en skynsöm gæði, skémtan ný, skorum slæðast verður í.

14. Meðan góma sasni senn, sízt eg fróma sneyði menn; þeir eru stygða fansi frá, sem frómu byggða kvauti ná.

15. Þeim skal bera þundar krús, þjóðin vera sú mun fús, saminn heyra saungva klið, og siðugt eyra leggja við.

16. Gafan blessi kvæða kver, krapta hressi' í brjósti mér, til að stilla stefja lag, svo stöðugt dilla mætti brag.

17. Dýsir ljóða dugi nú, Dresvarps góða horna bú, ysir flæði ekru flóð, svo eflist kvæða blómgan góð.

18. Mansaungs endi mindað spil, málið vendi søgunnar til, sitja ef vildi síðug þjóð, og sjá hvar skildi eg við ljóð.

---

19. Gauts nam fjara gríma haf, Gíuars ara strøndum af, sem að Trjámann sagði frá, í svína ranni dapur lá.

20. Utan frín ørva grér, enn að nýu þannig tjer: við mig skildi' í varga kór, vomurinn tryldi' og dorma fór.

21. Einsleg þókti æfin þar, að mér sóktu grislíngar, helzt með stífann heiptar rig, í hel þeir rífa vildu mig.

22. Greyin barði' eg meður mund, mig svo varði lánga stund; dóttir Stedja sama sinn, sút að gledja kom þar inn.

23. Sú mig leiddi svínum frá, svanninn eyddi nauðum þá, dýrs af gørnum gleði jók, gétu børnum mærin klók.

24. Glóðar handa gjørði lín, græðslu vanda benjum mín; Syfjar harma sagði gná, sínum barma øllu frá.

25. Sampyck urðu' í syrpu þey, svoddan spurðu hjónin ei; greitt án veilu gulls hjá þøll, gréru að heilu sár mín øll.

26. Ørt að bragði yndis slóð, ástir lagði' á Stedja jóð; mig nam skilja menja láð, meyar vilja fékk eg náð.

27. Einginn vissi af því hót, eg þó kyssa nœði snót, utan Pollur einsaman, ætíð hollur reyndist hann.

28. Utan kvíða fram svo fór, frosta tíð í þjassa kór, tók eg ydju eingann sið, utan Smiðju glíngra við.

29. Vallar laxa veitu hlíð, vetrardags um síðstu tíð, mig í tómi finna fer, framkom rómi' og þannig tjer:

30. Hef eg grun þar illann á, eflaust unnum skilja fá, því ockar breytni um yndis reit, án vidleitni fadir minn veit.

31. Pekur sorgin þánka rann, þegar á morgun vaknar hann, á lífi rídur þínu það, ef þussinn strídur kémst þar að.

32. Feigð svo spornir fyrir þí, fljótt að morgni vík burt nú, ádur en vaknað fadir minn fær, þó fái þin saknad hugurinn kær.

33. Frétti' eg tvinna foldu þá, fljóð hvört kynni vopn að ljá? burt hún geck og brands í sálm, bitra fékk mér Stedja skálm.

34. Mig eg klæddi morgni að, við meyuna ræddi eptir það: audar bil að illa nú, eptirskilin væri sú.

35. Bad hún mig ei gèfa' að gaum, hvað geingi um sig, því tíð sè naum; sýnna valla sagði vík, sèr að kalli dauði' en lík.

36. Kysti' eg Smiðju' og komst á braut, kærleiks ydju tíðin þraut, að hjarta kreppti hrygðin stinn, hún stóð eptir grátbólgin.

37. Í fljótu bili' eg ferð komst á, fyrri til ei vissi þá, klént þó gledji kul Griðar, kominn Stedji á fætur var.

38. Sakna skálmar vomurinn vann, það vondann tálma dæmdi hann, öskur börðust úr honum rám, óð hann jörðu sèr að knjám.

39. Járnstaung eina' í æði tók, eptir beina for svo jók; aulinn riður áfram sèr, enn eg niður fleigði mèr.

40. Yfir mig lángt á fróni fló, furðu strángt nam höggið þó, hans tilreiða hauka stig, í helju leiða vildi mig.

41. Þetta kunni Pollur sjá, þorns var runni ambátt hjá, gaurs er karga geymdu svín, þau gyrntust bjarga lífi mín.

42. Tóku bæði' um Stedja staung, að stillast næði heiptin laung, fyrir aptan yrpu nið, og allra krapta neyttu við.

43. Stedji eyrði aungu þá, upp þau keyrði stafnum á, hátt frá grundu höndum tveim; hvört fór sundur bein í þeim.

44. Fleigdust bædi' í feigdar hil, fyrr enn nædu jardar til; staungin gyllis stór ad sjá, steina milli festist þá.

45. Upp eg reiddi Odins bál, Urnir meiddi' hid bitra stál, ofan í kletti skjóma skrid, skrímnis fletti sundur kvid.

46. Unda tjarnir flódu' á fold, flæktust garnir Naums um hold; dørg um svellur dreyrraudt stig, daudur féll hann ofan á mig.

47. Mér vid bana brádum lá, búknum grana undir þá; adkom Smidja' í þessu þó, og þýar nidja af mér dró.

48. Mig fýsti standa' á fætur ótt, freyu banda kéndi skjótt, gledi-røskur géds í krá, grimmlegt øskur heyrdi' eg þá.

49. Sízt mig kynja svoddan réd, eg sá hvar Brynja tveimur med, villigyltum ad mér ód, ossa-trylltum þar eg stód.

50. Hraustmannlega hamra lid, hugdi eg ad skiljast vid, greip því muud um gaungu sveif, og geltinum undan lærid reif.

51. Hnútu stóra hnésbótar vid heyrnar ljóra kéllingar, allri rak eg orku med, af því blak hún fánga réd.

52. Kynleg datt vid kjaptshogg þad, kélling flatt á stordar hlad, hausnum undir hitti klett, hraut í sundur brúna stétt.

53. Í því gyltan á mig raun, adgáng trylltaun sýna vaun, sú var eptir ennþá lífs, og ad mér kreppti á velli kífs.

54. Hennar ædi hart ad sveif, hold og klædi af mér reif, herda' á milli mig nam slá, mátti' eg illa til hennar ná.

55. Þá var Smidja þar komin, þraut ad ridja gódvikin, bitrum hélt á benja seid, og burt af gélti trýnid sneid.

56. Vargurinn daudur digri þar, datt á haudur valmeyar; sigurinn gódur sæld nam ljá, sár og módur var eg þá.

57. Smidja grædi meidsli mín, mjúkum klæddi plástrum sín; hót ei spardi' ad hreinsa und, heill eg vard á skammri stund.

58. Átti' eg svanna' ad launa líf, lausinn annars hels í kíf, af því dátt eg unni mey, eina mátti vita ei.

59. Fimtán vetur var eg þar, vid einsetu fjallbygdar, yndis framann efldi frú, vid áttum saman bornin þrjú.

60. Ei þau feingu árin há, oll því geingu helveg á; bana ydjan einnig dró, afl úr Smidju svo hún dó.

61. Mig lysti valla leingur þá, leidum fjalla dveljast á; hægt mig gaf um humra kór, heidum af í bygdir fór.

62. Prem mánudum móti von, málms hjá rudum Eddilon, seinna leit vid saltann hil, sídan veit hann gjorla til.

63. Trjámann endti sína sogn, sæti léuti túngan þogn; lofudu allir hreysti hans, hyggjusnjallir runnar brands.

64. Raudi stendur Riddarinu hjá, rædu kéndur hlýddi á; hildigrím af hofdi sér, hetjan rýma burtu fer.

65. Sér ad víkur syni kalls, sendir ríkur nodru fjalls, uppbyrjandi ordin hrein, af yndisaudi á þessa grein:

66. Elsku fasti æ hvert sinn, ástkærasti hlýri minn! ófyrirsynju' í eggja þín, eg hefi brynju rofid þín.

67. Vildi' eg ei þó væri full, Vidris mey med rauda gull, eiga vid þig einvíg frekt, ættarlid ef hefdi þekt.

68. Hernit gífur hertil svar: heyra krefur Eddgardar, æfisaguar atvikin; en eg þagna verd um sinn.

69. Báleigs kalla' eg borda kér, á barminn halla taki sér; því fær bresta þundar vín, þognin sezt ad túngu mín.

---

# Þrettánda Ríma.

1. Vidris kéra vætan góð, verdur svala túngu mín; en skal bera þyrstri þjóð, þundar sala rauda vín.

2. Þrettán fylla fer í hønd, Fundíngs hornin bodnar hyl, tekst þó illa ydjan vønd, útan nornir komi til.

3. Því skal bidja þær um lid, þunds í strauma skorki góms, mitt ad stydja vildu vid, verkid nauma studla hljóms.

4. Ljóda kraptur ljáist mér, lidug róma pípan sé, óds til skaptar íþróttir, ædstann blóma medtaki.

5. Hjartans æda hélan góð, himins rigni stólpa væn, yfir kvæda ekru slód, øll svo digni' og verdi græn.

6. Ad uumni hallar hjarta ranns, hjal svo ræki góma kvørn, renni allar ædar hans, eins og lækir saman í tjørn.

7. Þar um syndi Atrids ønd, og eggjum verpi mærdar hjá; í Glettu vindi geira lønd, gledina skérpi þeim er sjá.

8. Fegurd og snilli fræda grund, flegdur máll sib eg ár; blómstrum gylli ljóda lund, laufgun ali gæfan klár.

9. Odreirs saftar yfir um flód, yggjar sveymi dúfan hvít, svo hródurs krapta hræríng gód, hárs á geymi verdi nýt.

10. Hlidskjálfs kvaddur hértil sé, af heitri, gramur, rænu stord, og nærstaddur innsigli, øll gódsamur þessi ord.

11. Mansaungstalið grunns til gá, greina líkan lætur senn; sögunnar skjali segja frá, sízt skal hlífa, vilji menn.

---

12. Þar nam síðast þundar krús, þegi søgur tæmast ein, sem Eddgard þýða orku-fús, æfisøgu skyldi grein.

13. Syfjar harma sagði grér: saga' að bragði hefst þar mín, sem eg barma' á svelnis skér, særdann lagði hjørs úr pín.

14. Hugði' eg leiðar hlunna fá, og hlýra flytja' um vegar skeið, skóginum breiða burtu frá, og hjóst að vitja heim á leið.

15. Í því gargan einn eg séð, aðsveymandi gat eg þar; grálegt fargan fremja réð, og fjaðrir þandi kolsvartar.

16. Ofan í valinn vængjum ók, vakið skað-ann þarmeð féck, einn þar halinn upp hann tók, og albrynjaðann gleypti reck.

17. Fofnir þorði að krækja kló, í klæði Aka' og dró að sér, en mig sporði yfirum sló, upp svo stjáka í loptið fer.

18. Með oss snáki fór áfram, furðu hratt um lánga tíð, þartil Aki úr hans hramm, einni datt í skógarhlíð.

19. Sá hjálmhøggur segja menn, selju reitar kénni þjóð; ferda snøggur sofnir enn, flug ei sleit um ský́a slóð.

20. Dægur þrjú ad vargur vann, vængja reyna gyldur þrótt, uns ad hiinu hitti hann, hamra eina, þá var nótt.

21. Drekans hreidur þeckti' eg þar, þjóttu rennt med gjardar eim, fjadra breidur sofnir hvar, flugid endti' í helli þeim.

22. Ungum tveim sem átti þar, ofnir rauda kráś tilbjó; bádum þeim til bordunar, búknum dauda' úr halsi spjó.

23. Drakon settist dyngju á, dúrinn þádi lúun haus, hans upréttist hali þá, hérvid nádi' eg verda laus.

24. Vída fór eg fjalls um rann, á fæti kríng og kom þar ad, sem eg stórann fyrir mér fann, fata býng í einum stad.

25. Vodir glamma voru þar, Vandils skvaldri prýddar med; einnig hramma hallar skar, hafdi' eg aldrei vænna sjed.

26. Hárs med þúnga hallar sól, høggvards skunda' eg dýnu til, bráins únga hvarma hjól, hélt vid blund um þetta bil.

27. Sofnir lagdi' eg fleini med, fjødrin lúdi hjartans reit; vakna' ad bragdi bráinn réd, blódi spúdi undin heit.

28. Blóðs eg aptur brunna prjón, ben úr heitri síðan dró; sofnis kjaptur fjørs við tjón, fúlu eitri burtu spjó.

29. Gagneitruðu gini frá, grimm úr æði spýjan vall; øll trosnuðu' í einu þá, af mér klæðin við það brall.

30. Sjá eg þóktist: bana bast, biturt kénna mundi' eg, því, eptir sókti sofnir fast, mig feigðar spenna greipum í.

31. Heldur ramar hríngur skóp, heljar stýu ógnaner, eg því framm úr hellir hljóp, hamarinn í að forða mér.

32. Feigðum 'sveiptist frænungur, fljótt til dyra leitar þá, og í því steiptist ørendur, ofan fyrir bjørgin há.

33. Utan þúnga aptur því, inn í fjalla rann eg gap, bráðs únga bæli í, blinds með hallar eldi drap.

34. Hélt eg síðan hættum frá, hamra ranni tæpa slóð, niður víðann vøllinn á, vaxinn hann með skógi stóð.

35. Sá apaldur stord um stár, strandar voða glæstur eim, mín um aldur augun klár, aldrei skoða líkann þeim.

36. Brautu lánga' um bjarkar reit, blóma alinn feta vann, uns eg gánga glæstann leit, gjarða val og elti hann.

37. Sigrad gat eg hófa hund, hljóp á jór og rendi' á skeid, vegu flata' um græna grund, gjóti fór á hellis leid.

38. Gargans jardar ók eg ótt, ærnum grúa saman þar; sídan gjarda gammi skjótt, gjördi snúa' í bygdirnar.

39. Eptir vonum varga flet, valur renna gjördi taums; Carídon þad haudur hét, hitti' eg menn á búki Raums.

40. Undrum ségna þótti þjód, þecktu reckar Högna tól; höldar fregna: Herjans glód, hvar eg fékk og budla kjól.

41. Itar sögdu ödlíng lands, ýtar rædi lífi frá, þad tillögdu' ad hefdi' eg hans, Hildar klædi búknum á.

42. Sagdi' eg þeim af sögunni rétt, sannleik hafna vildi' ei par; einnig beima fékk eg frétt, fylkis nafn í landi þar.

43. Tólómæus, þuldi þjód, þeingill hét hinn gildi sá; hvar ad sé um heimsins slód, hans adsetur, spurdi' eg þá.

44. Borgin, ansa fyrdar, fríd, fékk Lýberadone nafn; dóttir hans og bedja blíd, báls þar hvera geyma safn.

45. Odda dróttir fylkis frú, fola' af trega nefna hér; en Tekla dóttir; sögd er sú, sæmilega vel ad sér.

46. Saddur frétta svo frá-þeim, sveigdi' eg hest um varga stig, eptir þetta ad höllu heim, héldu flestir gilva mig.

47. Hárs eg tjalda hlyni bad, hilmis kvinnu mætti' eg sjá; lofnin spjalda leyfdi þad, lofdúngs innu fann eg þá.

48. Kurteislega kóngssins frú, kvedjur jóknust þaktri seim; frétti þegar bauga brú, hvar black eg tók og Pundar eim.

49. Innu grams eg innti frá, ad öllu leiti svo sem var; en eg Samson sjálfur þá, sagdist heita' í landi þar.

50. Til ad sanna sögu mín, senda beiddi' eg gilva sprund, til hellis ranna; lauka lín, lid tilreiddi á samri stund.

51. Fljótt án skada ferd ósein, til fofnis skála geck í vil; fluttum þadan fylkis bein, flagda mál og handar il.

52. Í greindann tíma gróttu snjó, grein fágada rætur vid, medur bríma Hárs eg hjó; heim svo þadan stefndum vid.

53. Ita fjoldinn eptir þad, ad því fylgdi þánka jásn: ad eg völdin öll í stad, eignast skyldi' og gilva nafn.

54. Yndis kédju innan skamms, eflast nádi blóminn klár; eg nam bedju giptast grams, gafst þad rád í sextán ár.

55. Gjæddur fé minn arfi einn, eik med slacka gledi jók, Tólómæus sá hét sveinn, síd-an spracka daudinn tók.

56. Illt mér þótti einlífed, eptir spjalda dauda þoll; ræsis dóttur ríka med, réd svo halda' á Blómsturvöll.

57. Sídan rétta sveitin kann, sögn til fulls af háttum mín; eptir þetta þagna vann, þund-ur gulls á rædu sín.

58. Hér til géfur Aki ans: ei þær rædur dylja ber; þín er krefur sögn til sanns, ad séum brædur skildgétner.

59. En heitord efna hlýt eg mín heidar, linna sagdi Fýr, kostum géfna kyrtla lín, Kurt-eis vinna Punds med fýr.

60. Og vígs um haudur væta hjor, vörmu krapi benja í, eda daudur fella fjor, fyrr en tapi máli því.

61. Honum ansar Eddgardur: öll mun júta tígin þjód, ad hafir þú glansa báru bur, í besta máta unnid fljód.

62. Þótt í valdi væri mín, vitur stála sagdi grér, mundi' eg aldrei ljósri lín, lægis bála neita þér.

63. Sáttir gjördust þeir vid þad, Pundar hvidu slota vann; vígs af jördu strax í stad, siefndi lid í kastalann.

64. Var nú mögnuð veizlan há, vyrðar teiga horna flóð; kveikti fögnuð krúsar lá, kvaks er lauga gjörði slóð.

65. Öls við borðin utan þjóst, upptok mála Hernit fann: það er orðið lunðum ljóst, lagar bála, sagði hann.

66. Að stýrði' eg góðri Blíðheims borg, bygð sú frá því minnuð er; en vor fóstbróðir sviptur sorg, sigra náði hana' af mér.

67. Gratiána einninn er, æztu trygða verðug sín, unnar mána eyu vér, eigum dygð að þakka sín.

68. Því er vilji minn: að mey, mann sér kjósi reckum hjá, þann sem hylja elda ey, yndis ljósið festir á.

69. Síðan þráða gniptin greind, giptu mála vorum að, ein skal ráða' í auðnu reynd, ei unn brjála sér um það.

70. Allir gæðann gjörðu róm, gilva kundar málum á; ægis glóða eikin fróm, innan stundar mælti þá.

71. Vel tilfallið vyrðist mér, ef veitist hvað sem huguriun kýs, Blómsturvalla hraustum her, happ er það og frami vís.

72. Enda lýsist yður um stund, eptir von að mannvönd er; úngan kýs eg auðarlund, Eddilon til handa mér.

73. Ad Gregam hallast Eddgard á, Aka reyni Kurteis trú; en Blomstur: valla vífum hjá, veit eg ei neina hrínga brú.

74. Hvør jafnrædi Hernits-er hér þó víða leitade, niptin klæda nám sem ber, nema hín fríða Isodd sé.

75. Því mun eg skýra þó um stund, því sem lystir hugarins bú, ad þid hlýrar, ødlíngs kund, yckar systur giptid nú.

76. Látid fáka' ad fødurs-høll, fría gana Hárs um bed; bjódid Aka' á Blómstur: vøll, birdar Grana lilju med.

77. Fullvel undi øldin rjód, í yndis skála slikri grein; vel tilfundid þókti þjód, þessi mála: lokin hrein.

78. Dryckju lúa duttu kjør, døvl því grenna hugurinn fer; heiman búa hlýrar før, og hund: rad menn til fylgdar sér.

79. Flagda þegi skorti skraf, Skøglar hvídu klædduft ham; ferdum segir ecki af, uns þeir ridu' í Fríkulam.

80. Sinn þeir fundu fødur þar, frétta nádi kall epter: hvørjir mundu? hann féck svar: hér á ládi ókender.

81. Aki dýra inn' høll, ulla leiddi nødru túns; þock órira þjódin snjoll, þund tilreiddi gamma dúns.

82. Sætid glæstri greypt med rönd, garg-ans ládi mengid féck; Aka næst á hverja hönd, hlýrar bádir komu' á beck.

83. Veizlu magna lýdum lands, lyndis glad-ur hertoginn fór; sátu bragnar saman í krans, saup hverr madur raudan bjór.

84. Dryckju þegar hornin há, höfdu svalad lýd um stund, alldjarflega Eddgard þá, upp-hóf tal á þessa lund.

85. Færstum blída luckan lér, lyndid hressa dægur öll; tími sídan ærinn er, ad eg þessa kom í höll.

86. Eda grunar ei til fulls, audugann tiggja hallar ranns, hverjir muni gautar gulls, er gildi þyggja staupa hans.

87. Parum eigi þeinki' eg enn, þelsz í stofu, Aki tér; sýnt er þegi svoddan menn, séu ofur-efli mér.

88. Aptur skyndi — Eddgard — svar, ægis glóda Fyr lét fá: síst erindi vort þad var, virdum bjóda kesti þá.

89. Heldur gledja þig med því, þad er leingi fyrgdir þú: ad Punds fullvedja þrunnu í, þitt afspreingi sjá færd nú.

90. Eddgard knár og Aki hér, eru bádir fjörs med blóm, sextán árum sem fyrer, senda nádir þú til Róm.

91. Hérvid gladur hertoginn vard, hjartad klæddi blídu-skraut; hverr þad madur yndis ard, einnig græddi' og fögnud hlaut.

92. Af sínum þrautum sögdu allt, svinnu meingi barmar tveir; sverda gautum sýndist kaldt, seggir feingid hefdu þeir.

93. Hlýrar beida hertogann, huldir fríða greipar snjá: ad vegu greida vildi hann, vollu ríða Blómsturs á.

94. Med þér renni fylgdin sín, fögrum hulin dreka væng; brúdkaupin ad bæti sín, med bænar þulu yfir sæng.

95. Einnig fríða Isodd má, audgud degi brimla ranns, med oss ríða svo ad sjá, sveina megi kastalans.

96. Allvel tekur Aki því, íta grúa snarrádann, maktar frekur flýtir í, ferd til búa lætur hann.

97. Meingid fríða fór á braut, folar tródu gotur lands; Gondlar hlída stein á skraut, skýa láda fagri glans.

98. Aldrei feldi oldin reid, yfir grundir dali' og fjöll, uns um veldi endti skeid, og þeir fundu Blómsturvöll.

99. Aka mót og orfum hans, Eddilon og Hernit reid; med kærleiks hót til kastalans, kunna honum gjördu leid.

100. Hrannar eisu' og handar mjøll, her:bergjanna fólkið bar; veizla reis í vænni høll, vínið raun á skálirnar.

101. Horna vætu hirðti þjóð, heyrðist valla sorgar lag, þrjár í nætur þanuin stóð; þarvið falla læt eg brag.

102. Feld er snild um fræða láð, flúinn Sóins høgla fugl; kveldar gildis kvæða dáð, knúið róað bøgla rugl.

---

# Fjórtunda Ríma.

1. Gyllings bana bót að vana brags úr inni, Atrids hana efli' að sinni, upp skal Grana setja minni.

2. Sér má geyma hugurinn heima hvíld að fánga, þøgnin beima bleckir lánga; brag skal teyma róms af tánga.

3. Veit eg øldin vill á kvøldin vísum sinna, Kjalars gjøldin víst á vinna, vits um tjøldin gledi finna.

4. En mitt vill leingi ljóða geingi laginn spilla; síðugu meingi seint og illa, svoddan streingir munu villa.

5. Peinkti' eg mundu máls á grundu mál þau batna, eg Kváśis unda saptin sjatna, á síðstu stundu mér að vatna.

6. Nú má annað sjá og sanna sveitin fróma, mér er bannað bragð á góma, Báleigs ranna helgidóma.

7. Illa rœmdur er eg og flæmdur Yggs frá ranni, mjög ósæmdur móti sanni, í mannheim dæmdur undir banni.

8. Vegtams fríðla við mig spilla Valgaut náði, sagði: hylla sig eg þráði, sú kom illa mínu ráði.

9. Bragar norna blíðan forna bauðst og minna, mest viðsporna mér líðsinna, og mærðar orna sára linna.

10. Þær kéndu mér um kvíðraumer, sem Kvillans afla, væri' eg þver að kása og krafla, og klóra sér um þjó og nafla.

11. Prettán sinnum saungva vinnu, sögðu kvendi, kvíðs á skinni hefði' eg hendi, hýrgað minni, þess eg kéndi.

12. Svoddan pretti Feingur fretti fullur trega; kall sig gretti gríðarlega, og gaupnir fetti' á marga vega.

13. Því á skeiði orð með eiði öllu spillti; hafði' á seyði Sovfner tryllti: að sefa ei reiði, hvað sem gildti.

14. Mig lét fleingja og sást á sleingja sofner slæmi, réð heitstreingja stór ódæmi, strax að heingja' ef aptur kæmi.

15. Hafði' eg ei lið að halðast við í hans óblíðu, fór á skrið með fleingíng stríðu, fram um hlíð á Ás-garðs síðu.

16. Hitti' eg Óðins ýngsta jóðið undir garði, sunni bjóða fáng ei sparði, sann eg blóð í æðum hjarði.

17. Ad lyng mér laut, þó legdi á braut í lágu gildi, sagdi: þraut hvad syrgja vildi, seinna Gauti minnast skyldi.

18. Erindid géck, því þýd og þeck var þorna nanna; hvad hún féck, eg hirdi' ei banna, í hyggja steck ad grunda svanna.

19. Bragar mey ef máls á vegi' ad mér vill gánga, mun eg þegi meins til fánga, mæla nei vid litlum stránga.

20. Pær hafa tólf þá tals um kólf og tvær enn betur, lagst á gólf, ef léttst í vetur, um lyndis hólf sú yngsta gétur.

21. Vil eg nú beida: ad hoggvards heida hlock eg blindum, fram ef skreidast flagds í vindum, fyrir ad greida krackamindum.

22. Eg veit þau hafa haus án vafa hreinann valla; um ef skafa aumgvir skalla, í mun grafa dagana alla.

23. Peir sem gæta góds og bæta geingid kvæda, eignist sæta giptu gæda, og gledi mæta sólar hæda.

24. Manns-framtalid mærdar galid má hér detta, og sagnar skjali sundur fletta; sögunnar hjalid býdur þetta.

---

25. Par nam falla Hnikars hallar horna prýdi, sem Blómsturvalla bjórinn frídi, borgar alla gladdi lýdi.

26. Höfdíngjarnir giptugjarnir gjordu veita, krúsar tjarnir selli sveita, sínum farnir högum breyta.

27. Menn tilnefna gæfugéfna gjördu valda, vída' ad stefna vidum skjalda, veizlu efna' og brúdkaup halda.

28. Dreif til ranna múgur manna' er mátti kjósa, vidtektanna vyrdíng ljósa, er vildu sanna skyldt ad hrósa.

29. Í sæti fer hinn hraustí her med hrannar glædur; hirdin ber fram horna flædur; Hernit tér og mæla rædur.

30. Áki, þín réd fremdin fín og frægdin géfna, gladt er skín til allra efna, ad eyrum mín fyrir laungu stefna.

31. En, nú hef eg séd þad sannkveded, ad sýnist þegi, fregnin téda' á voltum vegi; vyrdíng med þig skortir egi.

32. Eins þín dóttir afbragd þótti annara meya, ecki dréttir um þad þegja, ad ærn gnóttir muni þreya.

33. Nú vil eg hlýda, hirdir skída hverju skyldi, svara, ef blída banga hildi, bón med þýda eingnast vildi?

34. Hvergi ans kom hertogans mót Hernits spjalli; sást þad hans á svardar fjalli, ad sveif nú stans í géd á kalli.

35. Sæmdu hlýrar sogn órira sverda þundi, drakons mýra dock ei mundi, dýrri stýra gæfu fundi.

36. Aki svarar elda marar eydum snjöllu: eg þurfti' ei fara hér að höllu, með heitmeyar á Blómsturvöllu.

37. Sat eg heima handar eima hlock með blóma, gipt þeim beima frægð sem fróma, fanst mér geyma' og þókti sóma.

38. Hverr nam fræddur frëttum gæddur fólki þýða, að málmi klæddur mey fyrir blíða, mundi' eg hræddur út að ríða.

39. Kynja snjall við kóngsson gall hinn kvíðalausi: afgamall með hæru' í hausi, hættu, kall, á þessu rausi.

40. Ullar fleyin áður en dregin eru' í sundur, muntu feginn laufa lundur, láta mey, enn sjá þau undur.

41. Með hraustri mundu handsöl bundu, hvergi sporðu, fullvel undu efnum gjörðu, og einvíg bundu' á valþings jörðu.

42. Derlings arfa dóttir Narfa drífa náði, block á farfa, blundum spáði, bjarminn hvarf af stjörnu láði.

43. Strax að morgni hreist var horni, hetjur snjallar, fægðar korni fýris vallar, að frægð ei borni, klæddust allar.

44. Sté á hesta fólkið flesta, fleyar rita lysti hið mesta ferðum flýta, Fundíngs hvesta storm að líta.

45. Hernit sló á Héðins mó með Hildar prjóni, sporum sló sinn fák á fróni, frægð sig dró að skoglar þjóni.

46. Handsöxen reð hæfa þrenn, þó hátt upp sendi, velbúenn með hraustri hendi, og huldi seun þá skeids var endi.

47. Atreið jökst og ákof tókst með odda fundi, járn þá ókst um jötuns grundir, jörðin skókst og hátt kvað undir.

48. Lensur hrucku í lopt uppstukku líkt sem fífa, oddar suckn' í ungjord hlífa, elfar struckn jörar rífa.

49. Margur hratt á foldu flatt af fílum gjarða, hraustur datt þar beitir barða, með Budla hatt og plátu harða.

50. Hér skal inna: að Hernit linna huldur mýri, hertogann finna fór enn dýri, frægð að vinna, kapp svo ríri.

51. Burtreið heyja, í bugnir smeygja beittum fjöðrum; af hesti slegja hverr vill öðrum, Hildar treyja sprack á jöðrum.

52. Atreið lánga stríða' og stránga styrjar juku, um söknar tánga sundur suku, saman þáng að aptur ruku.

53. Loks það hrock þá hnútan sock í hlífum fáðum, hvergi klock með Hernits ráðum, að hertoginn steck af fáki bráðum.

54. Jarlinn dyggur þock ei ſkyggur þjarmaú ſlíka; gjalda hyggur laun álíka, lyndis ſtyggur manni ríka.

55. Hvergi rór ad Hernits jór nam hrauſt-ur renna, orku-ſtór lét ſkrokka kénna, forda þór vid atburd þenna.

56. Orva beudir undir lendir og einnin bóga, greip med hendi, Hernits nóga, hreyſti kéndi ſátt nam lóga.

57. Ad ſér kippti lopt á lypti ligri þófa, og og nidur ſvipti hundi hófa, hörd vidſkipti má þar prófa.

58. Tíndiſt fótagángur gjóta um Gondlar teiga; lángt nam hrjóta vidur veiga, vígs á ſnóta jördu deiga.

59. Fylltiſt reidi' nu rænu heidi ræſis arfi; benja ſeydinn blóds ad ſtarfi, úr hali leidir mad-urinn djarfi.

60. Ad jarli ód med Einars glód af grimd-ar ædi; fylltur mód og feikna brædi, fá vill blód á hildar klædi.

61. Hvergi ſídur hertogans ſtrídur hjörs úr inni, ſoltinn ſkrídur-ſára linni, og ſig frambýdur hlíf ad vinni.

62. Peſsa gættu brædi bættu barmar gildir, ſegdu': ad mætti ſefa Hildi, ſvoddan hættu' ei reyna ſkyldi.

63. Sættir-hrepptu, sinni slepptu seggir snjöllu, undvarg krepptu hjörs í höllu, heim svo kipptu' að borg um vollu.

64. Meyar hlýu málin nýu mildíngs fundur: fýrs að glýu feingi grundu, slett að nýu gat í sundur.

65. Hertoginn svarar hrugnis skarar hirðir góðu; glossa varar gipti tróðu, gauti marar elda rjóðu.

66. Má því trúa menn tilbúa máttu' að sinni, kost með lúa í kockbúðinni, og konnur núa undir minni.

67. Sæmd var höll og sætin öll af silki-tjöldum, glæstum föll á voðum völdum, veik Mardöll með harmi köldum.

68. Í hærsta sæti hertoginn mæti hérnæst leidist; vyrda kæti rum þar reidist, ríkilæti sízt umsneidist.

69. Eddilon og Hernit honum hefðu' hið nærsta, jalls með sonum gulli glæsta, greidt að vonum sætið hærsta.

70. Helmidon má og Herburt fá um um höllu lánga, í sætin há með sæmdum gánga, sýfjum hjá og vyrdíng fáuga.

71. Vorn innleiddar vel tilreiddar vignis dóma, eikur sneiddar aungvum sóma, yfirbreidd-ar költu ljóma.

72. Lægis glóda leiptrau góda las sig vída, kríngum sljóda flockinn blída, fegurd bjóda sjónum lýda.

73. Sætunn nádu foldir fjádar fræníngs vallar; menta gádu giptu snjallar, og garpa þádu heilsan allar.

74. Esdgard sídan þegna þýda þángad krefur, tígiun smídad tal upp hefur og Teklam frída Herburt géfur.

75. Hlaut og konu Helmidon med hyggju fína, gipt var honum gullhlads lína, med gæfu von er hét Serína.

76. Hjón þau sex vid brúdarbecks hin bestu sæti, gæfu smecks inn keyptu kæti, krýníng vex og eptirlæti.

77. Veizlan lýda flockinn fríða fór nu gledja, sveinar vída staup med sedja, Starblínds tída fugl ad sedja.

78. Pjédir klárú bikars báru bergja kunnu; horna tárin raudu runnu, róms um frár og vel á unnu.

79. Hvergi naumur horna glaumur heyrast nádi; eingin gaumur gáds í ládi, gafst né taumur sorgar rádi.

80. Hornin glansa, dreingir dansa, dillar gýa, raddar ansa rómnum nýa, rann í kransa sveitin frýa.

81. Var sem mundi brugdin blundi borg á hlída, og leika undir flocknum frída; fagurt stundi' í múrnum vída.

82. Í marga daga dreingir laga dýra kæti, eins og hagar sínum sæti, fást án baga' í eptirlæti.

83. Veitíng hlaut ad víkja' á braut, en virdar reisa; flædar þraut ei fögur eisa, síku ganta burt ad leisa.

84. Jallinn hradúr háttmentadur hrós þar keypti, olkrús gladur í sig steypti, ávarpadur burt svo hleypti.

85. Hertoginn mana ham lét stana hart á skeidi; sótt tók bana' og sídan deydi, syrgdi Grana byrdar heydi.

86. Loudungs vali ljóda skjali læt eg halla, brags í sal til Blómsturvalla, og byrja enn tal um kappa snjalla.

87. Til sinna ríkja rodulș síkja runnar frægn, fýsti víkja ferdum hægu, fýrs med díkja liljur þægu,

88. Harmi gniptar hnúa driftar hlynir sjádu, sundur svipta gjorla gádu, gulls og skipta vendi nádu.

89. Hver tók eina hríslugrein þar hetjan snjalla; sú skal treyna trygd óhalla, og trúskap hreina dagana' alla.

90. Sidan skildu gautar gildu gargans hlída; kvedjur mildu menn útþýda, mettir snilldum heim svo rida.

91. Lýbera regnum rík af þegnum, raun sem tjádi, Eddgard gégnum gékst nádi, gnipt-ar þvegnum harma sádi.

92. Eddilon fjádur asli, dád og eldi ránar, um Grickja lád med Gratjána, gráms féck rád og elfar mána.

93. Aki koru' í Caridon med kosti valda, flutti' ad vonum Fundíngs tjalda fleyar honum skatt þar gjalda.

94. Helmídon fjádi og Herburt þádi hulinn þelli, gargans lád med greipar svelli, og gaipa rád á Blómsturvelli.

95. Mannahald og freya fald í födurs hollu, Hernit spjalda hlaut med þollu, hafdi vald á mengi snjollu.

96. Fródir mildir, gódir gildir, garpar urdu; manndóms snildir miklar furdu, menn hugfyldir af þeim spurdu.

97. Art og dygdir yndis bygdir elska gádu, ótrú stygdir œ forsmádu, aldrei trygdir slíta nádu.

98. Yndis daga utan baga á lét falla, giptan haga œfi alla; úti er saga Blómsturvalla.

---

99. Nú er hið forna fjórtán horna flóð útinnið; mitt vill þorna mærðar grunnið, mót því sporna sízt fæ unnið.

100. Við eg nú fróða greppa góða gargans eya, spunann ljóða lag í teigja og láta' ei þjóð af snurðum segja.

101. Menn Snjávalla aðra alla um eg beiði, óðs þó spjall að augum leiði, ei til halla Murnis veiði.

102. Seytján hundruð fjást ógl-undruð søgnum frán, ár vel grundnð og sjøtýu, aukin stundnð tveim og nýn.

103. Nú fer betur ljóða letur lend-íng finni, þar sem gétur sveit með sinni Suðra tetur legið inni.

104. Þeim er stunda gaman grunda gèfist kæti, Starblinds kundar knífa bætir, kvæda grundar værdum sæti.

105. Stundir kvæda mundir mæda, manndáð eydist; fundir gjæda grand á breidist, grundir hæda vanda sneidist.

